# Siö
## Gudrækelegar
# Umþeink-
# ingar /
Edur
## Eintal Christens Mañs
vid sialfañ sig, hvorn Dag i Vik-
uñe, ad Kvøllde og Morgne.

Samañtekuar af þeim Heidurlega og Haatt
Upplijsta Kieñemañe,

## Sal. Sr. Hallgrijme Pe-
## turs-Syne,

Sooknar-Preste ad Saurbæ a Hvalfiardar
Strønd.

Editio III.

Seliast Almeñt Jñbundnar 5. Fiskum.

Pryckt a Hoolum i Hialltadal Af
Halldore Eriks-Syne, Anno 1747

Esa. 65.

Pad skal skie, aadur ein þeir kalla, þa vil eg Andsvara þeim, og a medañ þeir eru eñ nu ad Andvarpa, þa vil eg Bænheyra þa, seiger DROTTENN.

Matth. 6.

Nær þu bidst fyrer, þa gack iñ i þitt Svefn-Hws, og lyk Dyrunum aptur, og bid þu Fodur þiñ i Leynum, og Fader þiñ sa i Leynum sier, mun þier þad Openberlega Endurgiallda.





# Morgun Þanke a Suñudageñ.

HJa Marcum i 16. Capit. verdur lesid, Ad Herrañ vor JEsus hafe fra Daudum uppriſed miøg ſneiña Morguns a þeim fyrſta Deige Vikuñar, ſem ad nu er vor Suñudagur.

MED þvi nu mijn Saal, ad DROtteñ hefur geymt þig under ſiñe Myſkunar Hende, a þeſſare uñliideñe Noottu, fra Otelianliga morgun Diøfulſins Svikum, og Myrkraña Skielſingum, ſvo þu rijs nu Heilbrygd upp vr þiñe Hvijlu. Þa ſiaþu nu til, ad þu honum til Þocknunar ſem þig verndad hefur, og þier til Leidriettingar Hugleider nockud lijted uñ

ed uñ þetta Efne, nu a þessare Morgun Voku Stund.

Og fyrst læattu þier til Hugar koma ad lijka svo sem þiñ Endurlausnare, do fyrer Synder þijnar a Krossenum, og forlijkade þig vid þañ almaattuga Gud, med þeirre allra heilogustu Foorn sijns blessada og Syndlausa Lijkama: Svo Riettlætte hñ þig fyrer Gude eirneñ, med siñe Dijrdarlegre Uppriśu. Hañ afklædde þig Flijkum þiña Synda, i sijnum Dauda, eñ Jklædde þig aptur lioomande Skrwda sijns Riettlætis i siñe Uppriśu. Hiartans Glede attu og maattu hier af hafa, mijn Sæl, og af ollum Hug og Hiarta attu honum Packer ad giora, fyrer soddañ haaleitañ og Himneskañ Velgiorning; Og so þu audsyner þad nu i Dag, i þijnu Framferde, ad þier fiñest nockud til soddañ Giæsku og Godvilia þijns Endurlausnara, og þu vilier giarnañ bera þig ad, ad sijna honum Hlýdne aptur a moote, þa læattu þetta hid sama Giæskuverked hañs vera þier svo sem

eina Reglu og miñis Sedil, allañ þeñañ epterkomande Dag, i þvi sem þu formætt ad giora, hugsa og tala.

Hugsa þu nu þar uñ fyrst; Ad lijka so sem JEsus þiñ Lausnare doo þiña vegna fyrer þijnar Synder, svo þær skylldu ecke orka, ad þu dæer eilijfum Dauda, so kepp-stu nu vid i Dag, ad deya sialfur fra Syndunum og ollu illu Athæfe, fyrer eina hreina og Hræsnislausa Jdran og Yfer-boot.

Par næst svo sem þiñ Lausnare reis upp af Dauda, þier til Riettlætis, so sia til ad þu i sañre Trw, kappkoster ad betra þitt Lijferne, og ganga i Endurnyungu Lijfdaga aña. Set þier nu Alvarlega fyrer Siñe, ad ef Diofulleñ, Heimureñ, eda þitt eiged Holld og Blood vilia koma þier til ad syndga, ad þu þa aptur a moot miñ-est, ad Ovidurkvæmelegt er þad fyrer þig, ad færa þig aptur i Slijkur Andstyggeleg-ustu Synda, wr hvorinn þu varst ecke færd, nema fyrer Dauda Guds Sonar,

og fra þier ad fleigia þvi fagra Riettlætis Klæde, hvort þier var ecke gefed, nema fyrer hañs eigeñ Upprisu. Sieð þa þar fyrer til Saala mijn, ad þu þeñañ Dag fra Morgnenum byrier i' Krapte' JEsu Christi Upprisu, og set þier nu alvarlega fyrer, ad rijsa upp af Svefne og Dauda Syndaña, i hvorium þu hefur allt hier til, svo athugalaus sofed, eda mæ skie daud leiged. Virdtu nu framar fyrer þier, hvslijk Glede og Giedþeckne þeim Almættuga Gude mune vered hafa a sijnum elskuleg- um Syne, þa hañ ad Sigrudum Diofle, Synd og Dauda reis upp ur siñe Grøf. Eflaust mun DRotteñ og so yfer ockur glediast, Saala mijn, ef vid vilium nu med honum, upp wr ockar Synda Grof rijsa fyrer saña Jdran og Lifnadarens Betran i riettre Trw.

Þa JEsus allra fyrst byriade sitt Predikunar Embætte, og skijrdest i Jordan, þa kallade strax Gud Fader af Himnum ofan yfer hañ, og sagdest hafa a honum

Vel-

Velþocknan. Ecke er ad efast þar um, ad DRottenn hefur Velþocknan a þeim ølløum sem Syndana ydrast, og nya Hlijdne stunda, enn þo þad sie ecke nema so sem fyrst lijtel Uppbyrian i þessum Heime, nær hun ad eins skiedur i Trwnne a JEsum Christum.

Þar fyrer mijn Saal, rijsum upp med ockar JEsu, rijsum upp fra illu Lijferne, giørum Jdran, og lætum af ad syndga epter frekasta Megne. JEsus gladde ockur med sinne Upprisu, gledium vid hann og aptur med ockar Upprisu.

Einglar Guds bodudu þau Glede Tijdinden JEsu Læresveinum, ad Herrann være upprisenn. Gud giæfe vær Mennerner sem Jesu Lærisveinar vilium vera og heita, mættum so fyrer Naad heilags Anda upprijsa af Syndunum, ad Einglar Guds mættu med Hiartans Glede hvør ødrum þar af seigia.

Jaa mijn Saal, Rijsum ecke alleinasta upp i JEsu Riettlæte hvørt vier ødlunst fyrer sanna Trw a hans Nafn, helldur ga=

ungum og i hñs Riettlæte hiedañ af, i sén-
um Tvwäreñar Avoxtum; Sie ecke allei-
nasta ockar Umþeinking þesse, og Morg-
unstundar Idia, helldur mykluframar
alls Dagsins Astundan. Verum ecke ad
sins þessa Panka hulda i Briooftenu fyrer
Augunum, helldur wtmaalum og audsyn-
um þa i Verkunum, og þessa Dags Um-
geingne, bæde fyrer Gude og Naungan-
um, hellst i rækelegre Heyrn Guds Orda,
almeñelegre Bæn og Packargiord og öd-
rum Christelegum Verkum. Laatum
ockur nu epter fremsta Megne gefa Gude
þeñañ siounda Parteñ Vikuñar til Þion-
ustu, honum til Lofs og Dyrdar, þar hañ
hina sex gefur oss til Þionustu vors Lijkama.

Miñ HErra JEsu, kom nu til miñ, og
reis mig upp af Dauda og Svefne miña
Synda, riettu ad mier þijna Hønd, og
stid mig a Fætur, þvi eg er aan þijn bæde
Maattlaus og Magnlaus.

O! þu Herra og Eingell þess mykla
Raads,

Raads, taktu med þijnum almættis Krapte þañ Pwnga Tregleikans, Vanmaattarens og Vanskilningsins Stein fra mijnu Hiarta. Leid þu mig a þessum Deige og æfijd, i Krapte þiñar Dyrdarlegu Upprisu, fyrer þiñ heilaga Anda, a soñum Gudrækneñar og Riettlætesins Veige, uñ þu mier miñ HErra JEsu, ad upprijsa hier i Heime til Naadareñar Hlutdeilldar, so eg meige i ødrum Heime upprijsa til Dijrdareñar Arfleifdar, fyrer Saker þijns heilaga Nafns, Amen.

# Kvølld Peinking a Suñudageñ.

ÞAD er merkeleg Historia sem Johañes Evangeliste framsetur, i Tuttugasta Capitula þar hñ seiger: Ad a Kvøllde þessa sama Pvottdags, siñ Herrañ reis upp fra Daudum, hafe hañ til Læresveinaña

komed, hvorier vegna Hrædslu fyrer Gydingunum, hofdu Hwsed ad sier læst, Og þa hañ var iñkomeñ, Standande i Midꝺed hia þeim, Oskade hañ þeim Fridar, eñ þeir urdu fyrst hrædder, allt þar til þeir skodudu hañs Hendur og Fætur, hvoria hañ frambaud sialfur, þeim til Synis, þa urdu þeir glader. St. Lucas seiger, ad þeir hafe vered ad tala uñ HErrañ, þa hañ kom til þeirra.

Sala mijn, ædur eñ vid leggium ockur til Svefns, þa vilium vid med Guds Hialp, huxa hier nockud framar epter.

Fyrst skulum vid nu Hugleida, ad JEsus kom ecke til Pharisæaña, Kieñe-Maña Hofdingiaña, nie þeirra Romverska Strijds-Maña sem añad hvort ecke eda illa uñ hañ toludu. Mijn Sæl,

Saal, Gud laate ockur ecke sofna nie vakna i þeirra Selskap, Gud forbioode ockur ad trwa Nætur myrkrunum so umm ockur, ad vid hofum ecke HErrann JEsum til ockar innfeinged, og hanns Fridarbodunar noted, sem hefur Myrkranna Hofdingia sigrad, Hvor eirn, enn eingenn annar getur og ma sannann Frid og Rooseme gefa, bæde i Voku og Svefne. J odru lage merkium, ad HErrann JEsus kom inn til sinna Lærisveina, sem voru fyrst hrædder vid Gydingana, hvoria þeir hugdu wte ad læsa.

J annann Maata voru þeir hryggver, þvi þeir þottust mist hafa sinn elskulegasta Herra, fra sinne Naalægd og Umgeingne.

J þridia Maata voru þeir enn Vantrwader, og villdu ecke trwa, ad JEsus være upprisenn, þar þeir hofdu þo aadur fyrre af JEsu heyrt, ad a þridia Deige munde hann upp aptur riisa; Og þar ad auke hofdu þeir optlega þann allann Dag Bodskap feinged, ad JEsus være eflaust af Daudа upprisenn, hvad þeim kunngiorde bæde

Maria Magdalena, og Konurnar ſem Chriſtum fundu a Veigenum, og Eingelſins Rædu heyrt hofdu, ſo og lijka þeir tveir ſem til Emaus geingu, og þa voru nykomner heim aptur vr þeirre Ferd.

Merk þetta Saala mijn, og fær hier ſlijkt Gudrækelega i Nyt. Fyrſt ſvo ſem þeir voru Herrans Chriſti Læreſveinar; Svo ertu og fyrer hañs Nad, JEſu Læreſveirn. Petrum, Jacobum og Johañem kallade hañ til ad vera ſijna Læreſveina, vid Vatned i Galilæa, eñ þig hefur hañ þar til kallad vid Vatned Skijrnarenñar, edur i Skijrneñe. Þeir voru hryggver þvi þeir voru ſvipter ſijns elſkulegaſta Meyſtara og Herra ſijnelegre Nærveru, fra hverium þeir og flydu i Grasgardenum. Myklu hryggvare mætt u vera, med þvi þu hefur, æ þvi midur (i Dag ſo ſem optar) ſkved fra þijnum DRottne og elſkulegaſta HErra, med þijnum Syndum.

Syndingar tooku JEſum fra Læreſvei-

nunum, moote þeirra Gyrnd og Vilia, ei
þu hefur JEsu fra þier vijsad, epter Gyr
nd og Vilia þijns eigeñ Hollds, þar þu
hefur þvi hlijdugre vered ad elska Synd-
ena, eñ þijnum Gude, ad elska Riettlæted.

Læresveinarner JEsu, hofdu Laas og
Hurd ad læsa og lykia ute fra sier sijna O-
vine Gydingana. Eñ med hvoriu kantu
og villtu þijna Ovine wtelykia, sem eru,
þijn eigen Samvitska, hvoria þu hefur
fleckad, Guds Reide, hvoria þu hefur
forskulldad, þijnar Synder sem þu hefur
drygt, og Diosulleñ sem uñ þig situr, ad
giora þier Skada.

Þeir voru hreiffer og Trwarveiker; þo
þeir heyrdu talad margt uñ Christi Upp-
risu. O! mijn Saal, er ecke hid sama
fyrer þier? Hvorsu margt hefur þu mått
heyra, lesa og hugsa uñ þiñ Herra JE-
sum, og uñ þijn Saalar Efne i Dag? Eñ
Gud nade, hvar er Avoxtureñ? Athuga
þu þar fyrer Saala mijn, hvad margt þu
hefur nu af riettre og Gudrækelegre Helge-

Dags Idiu forsoomad, og hvad margt
u hefur Oheilagt, Heimskulegt, Hiegom-
egt, og Holldlegt bæde giort og stundad,
hugsad og talad. Komum nu þar fyrer
Saal mijn, og gesum ockur wr Selskap
Phariseana, sem eckert hugsudu nie toludu
um Jesum, hvort hñ være uppriseñ edur ei,
gefum ockur i Hoop Herrans Læresveina.
Trwum vid ecke Myrkrana Hættu um
ockur sofande, nema vid hofum Liooßens
Herrañ JEsum yfer ockur vakande. Vid
komum til JEsum i Vatne, eda fyrer
Vatn Skyrnareñar, Komum nu aptur
til hañs i Vatne ockar Jdrunar Taara.
Verum hrygg, þvi vid hofum þvi gooda
tapad, eñ illu epterfilgt, vid gietum ecke ock-
ar Ovine wtelæst, bidium nu þar fyrer
Herrañ JEsum, ad læsa þa og wtebyrg-
ia fra ockur. Preisum nu med Hende
riettrar Trwar, a Pijslar Saarum ock-
ar Endurlausnara med hvorium hañ hef-
ur allar ockar Synder, sem vid drygt hof-
um fullkomlega afmaad, bætt og borgad,

Eck

Ecke kun̄e Lærs nie Hurd, JEsum fra sijn-
um Lærefveinum wte ad lykia; Svo kun̄a
og ecke Syndernar hn̄ fra ockur wte ad læ-
sa nie lykia þa vid han̄ af Hiarta gyrnunst.
Pvi in̄elegar sem vid hugsum um̄ JEsu
Forþienustu, og hans Mysskun, þvi glad-
are verdum vid, þvi værara sosum vid,
þvi Ohræddare meigum vid vera, fyrer
Diofle, Synd, Samvitsku Kvijda,
Guds Reide, og ollu illu.

O! þu elskulegaste JEsu, mikell er min̄
Vanmætttur og Veikleike min̄ar Trwar,
hvor mig ængrar og æstrijder, en̄ meire
er þin̄ Kraptur sem mig styrker og forsvar-
ar. Myked hef eg sært mijna Saal, med
Syndunum, en̄ myklu framar kantu ha-
na ad græda med þijnum Pijslar Saar-
um. Eg hefe fra þier flwed og þig yfer-
giefed med Forsomun goodrar og Gudræ-
kelegrar Jdkunar i Dag; Naalægstu
mig nu aptur i þin̄e Myskunseme, og wte-
lyk fra mier alla mijna Ovine, synelega
og Osynelega a þessare Nootttu, lættu þijn-
ar

ar Blessadar Beniar og Under vera Sa-
lu miñe fyrer sioonum a þessare Noottu,
heñe til Glede og Fagnadar. Laattu mig
eignast þiñ Frid, uñ þu mier i þijnum
Fride ad sofa, i þijnum Fride ad vakna,
i þijnum Fride ad lifa, i þijnum Fride ad
deya, i þijnum Fride upp ad riisa og i þij-
num Fride eiliiflega ad glediast, þu sem
lifer og rijker med Fodurnum og heilogum
Anda, Lofadur, Vegsamadur og Bless-
adur ad eillijfu, Amen.

# Morgun Þeinking a Maanudageñ.

Genesis Bookar 1. Capitula
Stendur skrifad, Ad i Upphafe,
hafe Gud skapad Himen og
Jord, asamt ollum Skiepnum,
a sex Dogum, hverier sex Dagar
ad Samlykiast meiga vid eiñ Dags
Morgun, af þeim ollum Tijma er

Verølldeñ stendur.

Hattu nu Saal mijn, þeñañ upp-ruña Dags Morgun vera þier Ordsok, hier framar uñ ad þeinkia. Athuga nu þar fyrer. Fyrst þañ fagra Morgunroda, og þad skiært skynande Lioos Soolareñar, nu Uppreñande, hvad ad er eitt hid skiærasta og fegursta DROttens Handaverk, sem daudlegum Moñum hier i Heime, fyrer Sioner ber, og hvad skiær, Dijrdarlegur og Vegleg-vr mun vera sialfur Skapareñ, þar Skiepnan er so skiær og fogur? Siaa hvorsu Dagureñ veit sijna somu Att, vr hvorre hañ ad Morgne uppreñur, og hvar hañ ad Kvollde nidurgeingur, So og eirneñ hefur og helldur Sooleñ siñ sama Gaang, Daglega og Arlega.

O! hvorsu vijs mun sa HErrañ vera, sem þvi hefur svo tilskickad? Og hvad stod ug er sit Stioornan, sem ecke lætur þvilijka Skickan nockru siñe skeika, Og hvorsu myked er Almætte þess HErra, sem Himne

Himne og Jordu vid Magt helldur? Siaadu og eirneñ, hvorneñ allar Skiepnur leita siins Fædis, Fuglarner uñ Lopted, Dyreñ uñ Jordena og Fiskarner i Sionum. O! hvorsu Rijkur, Goodgiarn og Orlaatur er sa HErrañ, sem aan allra Eptertalna og Bitalings, helldur þær allar so Rijkuglega og Goodvilluglega Kost frij? Mijn Saal, fyrer þessa sama DRottens Augsyn ertu nu af þijnum Svefne voknud, under hañs Verndan hefur þu Roseme, Hvijld og væraũ Svefn haft a þessare Noottu. Svo sem allar Skiepnur þiggia hañs Goodvilld, so þiggur þu allt hvad þig Gott hender og hendt hefur af hañs Giæsku og Myskun, allar Skiepnur prijsa siñ Skapara, hvor epter sine Tegund og Naatturu. O! þu mijn Saal, sem mykltu fleyra, ædra og meyra þiggur af DRottne, helldur eñ nockur oñur skepud Skiepna, Gud laate þig ecke henda, ad þu siert hin lakasta, eda verder ein epter af øllum hañs Skiepnum, med þij-

ns

na Lofgiord og Packlœte, epter þvi sem heilagur Ande virdest nu ad giefa þier Naad til.

Rœnulijtell maa sa Pioon vera sem ecke virder siñ Herra þess, ad biooda honum goodañ Dag ad Morgne Dagsins. Vertu ecke Saal mijn so Rœnulaus, ad þu ecke veiter DRottne þijnum þa Virding, sem þu villt ad þijner Pioonar veite þier, Biood þar fyrer Gude þijnum goodañ Dag, med þiñe Morgun Bæn, Jaa, taktu under vid þiñ Gud, sem nu verdur fyrre til ei ad eins ad biooda, helldur giefa þier eirn goodañ Dag nu sem optar og vertu honum Packlaat.

J ødru Lage hugsa þu nu þar uñ, ad allar Skiepnur sem þu sier nu i Dag, eda hefur med ad fara og hondla, þier og þijnum til Næringar og Biargrædis, bæde Lifande og Daudar, Utan og Jñañ Hwsa eru af Gude skapadar, og þier i Hendur feingnar og skamtadar, Mundu þig þar fyrer, ad Vanbrwka þær ecke nie

Mis-

Misbrwka þeirra Skapara og þijnum HErra til ſtygdar, ſem þier þær liede og ſkanade, Formæltu ecke Skiepnum Drottens nockru ſiñe, þo þær ſieu þier ecke i Dag ſem Hlijdugaſtar, Peinktu helldur, hvorſu þu ert ſialf bæg og Yverbroteñ þijnum Gude, og Formæler hañ þier þo ecke. Laat þier nægia Daglega med þad ſem DRotteñ hefur þier ſkamtad, Girndſtu ecke þar vid ad auka med Rangindum, Forſpilltu þvi ecke helldur med Otilbærelegre Eydſlu og Utſooan, hondla þu Ærlega, Rielega og Skynſamlega med Skiepnur DRottens, ſem hañ hefur þier i Hendur feinged, ſvo ſem þiñ ſkamtadañ Verd, Stær þig ecke yfer þeim ſem miña hafa, og øfunda ei þañ ſem meira hefur, vel i Lijkamanum ſijna Porſ, epter þvi ſem Gud þier leifer, og gialld Chriſto ſijnar Skylldur a hañs Fatæklum Limum, epter þvi ſem DRotteñ giefur þier Eñe, Reittu Chriſtelega DRottens Skiepna, Vidurkieñdu Lijtelaatlega

þær þier Overdugum veittar, Packa þu Gude Hiartanlega fyrer þær, Bid þu Gud þier þær Audmiwklega ad blessa.

Lof sie þier DRotten minn fyrer Vernd og Vardveitslu, Værd og Rooseme, og fyrer allar Skiepnur, sem þu hefur mier Overdugum til Þarfar skapad, og Uppheldis giefed. Stioorna þu mier Naadarsamlega a þessum Deige, og allre minne Hondlan og Medferd a ollum þijnum Skiepnum, sem under mijnu Wallde eru, og blessa þu mier þær allar, þier til Lofs og Dijrdar, enn mier til Gagns og Nytsemdar, Amen.



# Kvølld Þeinking a Maanudagenn.

Genesis Book. 3. Capitula verdur lesid: Ad a Kvollde, þa Dagurenn took ad koolna, hafe Gud DRottenn kallad Adam fyrer

sig

sig, og Reikningskap vid hañ halld-
ed, uñ sitt fyrsta Synda Brot,
þa hañ æt af þvi Trie, sem DRott-
eñ hafde honum bañad.

MIJN Saal, Maklegt være þo
DRotteñ vid ockur hiellde nu a
þessu Kvollde, hiñ strængasta
Reikningskap, uñ þad sem hañ hefur feing-
ed ockur i Hendur ad hondla med i Dag
af sijnum Skiepnum. O! hvorsu hof-
um vid med þad fared? Añad hvort O-
riettelega, edur og so alldeilis illa. Hvor-
su sæ Packar Ord hefur DROTTeñ
þeiged af ockar Muñe? Jæ, hvorsu Fæ-
visleg hefur vered oll ockar Hondlan i
Dag? Margt hofum vid giort þad Gud
hefur bañad, sætt þad sem Gud hefur
boded. Adam Forskulldade ad wtrekast
wr Paradijs med einu Brote, eñ med
hvorsu morgum Brotum og Syndum
hofum vid nu Saala mijn Forskulldad
fra Gude og eilijfre Sæluhiælp ad wt-
rekast?

rekast? Adam braut myked, þar hañ mishondlade med eitt Eple, Hvad miklu meir hofum vid þa syndgad med ockar Misgiordum, vid so margar goodar Guds Skiepnur i Dag? Siaa þu mijn Saal, Tijmanum hofum vid forspillt aan Bænar og Packlætis, med Hyrduleyse og Giaalijfe, Heimsku og Hiegoma, Heilsuñe Onytsamlega fortært, og til Ymislegra Synda misbrwkad, og hvad tek eg til ad telia þad upp, sem þo verdur ecke taled? Pvi hvor kañ ad skinia hvad opt hañ fellur? Og ef sa Riettlaate fellur Siosiñum a Deige, Hvorsu opt mun eg þa Raanglaatur falled hafa i Dag? Jaa mijn Saal, hversu Oþarflega, Oskynsamlega, Oriettvijslega, og Oþacklaatlega hofum vid þessa gooda Dags Tijma foreydt? Og so sem vid i Morgun glodduſtum vid, ad siaa þad fagra uppreñanda Dags Lioos, so melgum vid nu Hryggiast vid, ad siaa þad undergangaa aptur og Myrkred sem Dauðañ bodar og For-

ei-

ermyndar, yferkoma. Eñ mijn Saal, hvad skulum vid til giøra? So lijted sem Adam stodade ad fela sig mille Triaña, fyrer Augsijn DRottens, so lijted stodar ockur ád dyliast fyrer Gude, þviad Vei þeim sem dulder vilia vera fyrer DRottne seiger Ritningeñ. So lijted Skiool sem Adam vard ad sijnum Fykiublødum, svo lijted og ollu miña gyllder ad skyla sier med sijnu eigeñ Riettlæte edur Meinleyse, eñ allra sijst gyllder ad afsaka sig med Gaaleyse, Mañlegum Dœmum, Hollds Veikleika, edur hvøriu ødru slijku. Komum þvi aan Dvalar mijn Saal, komum viliug og Oneydd fraḿ fyrer DRotteñ nu a medañ hañ fyrer siñ Anda hid iñra, med Gudrækelegum Hugreñingum, edur fyrer Orded hid ytra, med hoogværum Amiñingum, i Naadeñe a ockur kallar, so vid ecke sijdar meir naudug koma hliootum þa hñ i Reideñe skipar þa Ogudlegu fraḿ ad draga fyrer Doomeñ. Medkeñum nu grœatum og kløgum ockar Synder,

der, illa Medferd, Ohacklæte og Avird-ingar þessa Dags, fyrer þeim Myskun-sama Gude, og bidium lijtekatlega Frid-ar og Fyrergiefningar i Trauste og Nafns Medalgangarans JEsu Christi, þvi treist-ande og trwande af Hiarta, ad DRott-eñ mune af Naadeñe vid ockur hondla, epter siñe Myskunseme, ongvu sijdur eñ hañ giørde vid Adam, hvorium hañ lof-ade, ad Kviñuñar Sæde skyllde i sündur mola Hoggormsins Hofud, og gaf hon-um og hañs Kviñu Skiñkyrtla, þar læde voru nakeñ. Þessa sama KviñuñarSæd-is JEsu vors Endurlausnara (sem hañ hefur med allre siñe Forþienustu gefed ock-ur) mun hañ laata ockur niñota, og Diof-ulsins Magt svo burt taka, ad hañ mun ongvu illu fram vid ockur koma; Jaa, mun klæda ockur med tveimur Kyrtlum, sem er Riettlætesins Kyrtle sijns Sonar, og Hialpræþis Klæde H. Anda Krapt-ar, og i þessare Trw og Von, vilium vid i Nafne og Trauste þess heilaga og bleis-

 gad

ada Kvinunar Sœdis, JEsu Christi vors Lausnara, Augnahvarmana apturleggia, og Lijkamanum Hvijld gefa a þessare Nottu.

Lof sie þier DRotten min, fyrer allar þijnar Skiepnur, sem þu mier til Gagns og Parfar giefed hefur; Fyrergefe mier þijn Foodurleg Myskun, allar mijnar Synder og Saker, og skyle mier þijn Giæska, fyrer ollum Diofulsins Freistingum, þessa Nott og alla Tijma, Amen.

## Morgun þeinking a Pridiudagen.

MAtth. 20. Capitula, Framsetur Herran vor eina Epterlijking, Um Hws-Foodurenn sem wt gieck snemma Morguns, ad leigia Verkmenn i sinn Vijn-Gard.

MInstu hier uppa Saala mijn, a þessum Dags Morgne, og merk ad Eflaust er nu sa Himneske Hws-Faderenn Almattugur Gud, wtgeingenn, ad leita sier Verkmanna sem honum Trwlega i sijnu Embætte þioone, Jaa, hann skygnest ad þeim sem hann og snemma Morguns i Skijrnenne kallad hefur, og Samning akla reidu vid hann giort, i hvorra Tolu þu ert mijn Saal, fyrer Naad DRottens.

Virdtu nu fyrer þier, ad ecke ertu kollud til Idiuleysis, eda Omennsku i DRottens Vijngard, Rijsum þar fyrer upp, og mætum nu sem skiootast ockar HErra, Verum til reidu ad biooda honum ockar Þioonustu, Jaa, Gongum Fwslega epter hanns Bode. Giorum i Dag ockar Verk og Vinnu, sem vid erum alla reidu tilskipud og kollud JEsu Christo. Lofum nu DRottenn og þockum honum fyrer sijna Vardveitslu. Byrium þennan Dag med Hiartanlegre Bæn og Christelegum

legum Asetninge goodra Verka, Stundum ockar Viñulag og Embættis Utriettíng i Otta Drottens med Trw og Dygd, Sie þad nu ockar hiñ alvarlegaste Asetningur ad giora, tala, æforma, hugsa og framkvæma þad eina, Leynt og Opinberlega, sem añad hvört er Gude til Lofs og Naunganum til Gagns, eda og svo ad minsta Koste Gude sem sijst til Styggdar, og Naunganum sijst til Oneyxlunar, Og þo ad vid i ockar Viñulage, Stiett og Kallan, af adskilianlegum Bægiendum, Krosse og Mootgange, eda hvoriu hellst motstædelegu Tilfelle, meigum i Dag lyast, sveitast eda þreitast, þa hüggum ockur vid þañ Samning, sem Drotteñ i Skijrneñe vid ockur giorde, og Daglega i sijnu heilaga Orde vid ockur endurnijar, sem er: ad hañ vilie ætijd i Naad, eñ ecke epter stranngásta Riette vid ockur hondla, og ollum sijnum Vijngards Ervidismoñum, vill hañ sialfur nalægur vera, og þa sem i Ervide og Pwnga þiast og þreytast, losar hañ

hañ ad Endurnæra, þar med kortar hañ ecke Launeñ ad Kvollde, þvi fullañ Pening, fullkomiñar Sælu, gefur hañ sijnum trwum Pionum og Verkamoñum uñ sijder, og þad af Naad, eñ ecke af Forþienustu vorre. Vid skulum ecke helldur Saal mijn, srvænta ockur goodra Dags Launa, þo Viñañ ockar sie og sijnest lök og lijtel, Embætted ockar lijtelmootlegt eda Kraptarner ockar veiker. Hugsum ad eins uñ þad, sem Guds Ord seiger. Ecke heimtest meir af Verkamoñunum eñ þad þeir fiñest trwer. Viñum þvi i Trauste DRottens, trwlega vegna Guds, Sidsamlega vegna Guds Eingla, forsiaulega og ærlega vegna Mañaña, skinsamleaa og Vareygdarlega vegna Dioflaña, Rjettvijslega i Kiærleika til Guds og Naungans, vegna siaulfra vor.

O! miñ DRotteñ, þu sem mig hefur kallad i þiñ Vijngard og eñ nu a þessum Morgne kallar, so eg i mijnu Kalle og Embætte, þione epter þvi sem þu mig haaft

eda lægt sett hefur ; Gef þu mier þijna Nad , so eg trwlega , þarflega og nytsamlega , þier til Lofs , eñ mijnum Naungа til Nytsemdar og Gagns , giore , tale , og forme og framkvæme allt þad eg hlijt ad giora , tala , hugsa og ƒ̶driettа i miñe Kallan , og gef mier Styrk Trw og Polinmæde ad lijda og umbera hvørn Mootlætis Kross , sem mier i Dag kañ til ad falla , og blessa þu milldelega oll mijn Verk og allar mijnar Utriettingar , fyrer JEsum Christum , Amen.

# Kvolld þeinking a Pridiudageñ.

Mattheus i 20. Cap. Greiner i Epterlijkinguñe Uum Vijngards Meñena ; Ad Hws-Faadereñ hafe boded sijnum Raadsmañe , ad kalla Verkameñina , og giallda þeim Dag-launeñ.

Sæla

Sálla mijn, so sem þesse Dagur er ad Kvollde komeñ, so kemur vissulega Kvolld ockar Æfetijdar, a hveriu DRotteñ JEsus Doomare lifendra og Daudra, mun ockur kalla, fra þessare ockar Vijngards Vinu. Laatum ockur nu þar fyrer, a Kvolldstundu þessare siaa ockur uñ, hvorneñ vid hofum epter Skylldu ockar Embættis uñed i hañs Vijngarde i Dag, og þar med hvad epter er Ouñed, sem bæta maa uñ fyrer þvi, sem bæde hefur [illegible] og laklega uñed vered. Ad [illegible] mijn [illegible], noogu sneiña kallade DRotteñ ockur i siñ Vijngard, þa vid vorum skijrd. Noogu sneiña kallade hañ ockur i Morgun, fyrer iñre Hræring heilags Anda, svo noogañ Tijma og Toomstund hefum vid haft, eitt gott Dagsverk ad viña. Eñ mijn Saal, Hvad hefur skied? Dagureñ þesse er lideñ, a Dageñ Æfeñar ockar lijdur miog hvad af odru og alldrei veit nær eñ Kvollded kiemur, og sagt

verdur, gior Reikningskap þiñar Raads-
meñsku.

Eñ Verkeñ ockar eru lok, lijtileda ein-
geñ, og øll i sijnu eigen gillde Onyt, so vid
meigum grœtlega klaga og seigia: Illa
hef eg lifad, og Onytt Tijmañ, þar oñur,
hlijdug Guds Born, og trwer Verkmeñ
Drottens hafa sveitst og uñed allar tolf
Stunder Dagsins, þar hofum vid varla
eda ecke hiñ ellefta Part allra ockar Ef-
stunda, nockud gott og nytsamlegt giort
og wtriett. Ja, vid hofum ei ad eins
Idiulaus vered og Tijmañ med øngre Vi-
ñu Onytt, helldur (œ þvi midur). Tijman-
um med illum Verkum forspillt. Hvør
munu ockar Laun verda þa Raadsmadur-
eñ kemur? Saññarlega ill ein, ef epter Ve-
rdugleikum er fared, vid høfum haft ockar
Hlutskipte med Letingium og Illvirkium,
þvi er Von ad Hlutskipte Launaña, verde
epter Hlutskipte Verkaña. Eñ mijn
Sæl, eitt af ockar Dagsverkum er eñ ep-
ter, sem Gud hefur þo skipad ockur ad gio-
ra,

ra, giætum vid giört þad svo honum lijke, þa mun hañ gefa ockur allt þitt kvitt, sem honum hefur a ockur i Dag mislijkad, þetta Verked heiter, so; Offra þu DRottne Lofgiördeñe, Item, Akalla þu hañ i Neydeñe. Upphefium nu þar fyrer: Hiarta, Huga, Hendur, Augu og Sikke til Drottens, og þockum hañs Mykunseme fyrer sijna Naad, Volenmæde, Verndan, Forsorgun, fodurlega Hlijfd og Blessan, sem hañ hefur tied og audsynt ockur i Dag, Bidium lijtelaatlega Fyrergiefningar allra ockar Synda Brota og Misgiorda, i Nafne JEsu Christi, treystum og trwum honum, so sem hiartanlegum Fodur, ad ecke mune hañ epter strangasta Rietter, helldur epter miukastre Mykun vid ockur hondla; Þar sem Verkeñ ockar nar ecke til ad plooña fyrer settañ Pening eillifrar Dyrdar, þa tekur Forþienustañ vors HErra JEsu vid, og under hana skyt eg nu mijnu Maale, og bid þig litelaatlega miñ DRotteñ, hendladu vid mig epter

Myſkun þiñe, eñ ecke epter Verdſkulld-
an miñe. Laattu mig niota þijns elſku-
legaſta Sonar Hlijdne og Forþienuſtu,
eñ ecke giallda miñar Ohlijdne og Idiu-
leyſis. Vardveittu mig fra Dioflenum,
og ollu Illu, i Nott og alla Tijma, og
bleſſa þu Myſkunſamlega, hier til Lofs, eñ
mier til Nota, og Naunganum til Gag-
ns, allt þad ſem eg hefe uñed, alla mijna
Æfe-Tijd, (þo lijted ſie) i þijnum Vijn-
garde og laattu mig ecke hafa Hlutſkipte
med Otrwum Pionum, þa þu kallar mig
wr þeſſare Vijngards Viñu, helldur gef
þu mier eilijft Lijf fyrer JEſum Chriſtum,
A M E N.

## Morgun Beinking a Midvikudageñ.

Ja Matth. 21. Capitula verd-
ur gieted, Ad þa JEſus eitt
ſiñ gieck ſneṁa Morguns
heim

heim ad Jerusalem, hafe hann Matlystugur vered, og leitad Avaxtar a einu Fykiu-Trie, enn sem hann fann ongvann, Formællte hann þvi, so þad visnade upp, allt ad Rootum.

MJJN Saal, sa minne DRottenn sem þig hefur plantad i Alldengard sinnar Christne, og vokvad þig med sijnu H. Bloode i Skyrnar Laugenne, hann hefur viijst Epterlaungan ad sinna a þier gooda Avexte. Wijst mun hann nu a þessum Deige, sem nu er alla reidu upprunnenn yfer þig, koma og leita, edur ad minsta koste skygnast hia þier, epter goodum Avexte, so sem hann og kienner i Epterlijkingunne hia Lucam, þar hann seiger: Alldengards Herrann hafe umkvartad, ad i heil þriu Ar hafe hann Avaxtar leitad a einu Fykiu-Trie, og þo ongvann funded, og skipad þvi ad hoggva þad burt:

Giætum nu þar fyrer Vandlega ad mijn Saal, ad DRottenn sinne þig ecke med

ollu Avaxtarlaust Trie i Dag, Hupa þu ecke ad þiñ Herra læte sier nægia med toom Bloðeñ, ann Avarta, þo þau syneſt fogur, það er: Ecke nægeſt noog ad þu kalleſt Christiñ ad Nafnenu einu, eda umgangeſt ad eins med Christnum Moñum, ad Sideneñe og Selſkapnum, og ſiert þo ſem viſid Halm-Strai i Hveite Hrwogum, ſem uñ ſijder verdur wtſiktad og brendt. Siaðu þar fyrer ſvo til, ad þu fyrſt a þeſſum Dags Morgne vaknadur, Koſtgiæfer þig ſo ad tilbwa og tilreida, ad þu hafer oll Efne til ad verda Frioſſamt Trie i DROTTens Andlegum Vijngarde i Dag.

Fyrſt mattu vita, ad Tried ſem bera ſkal ſiñ Avoxt, hlijtur goodañ Grundvoll ad hafa, ſvo þarf og þijn Trwa Grund voll ſañrar Kyñingar a Almattugum Gude, og þijnum HErra JEſu Chriſto, og hañs Vilia ad hafa, ſo þu hañ riettelega þecker, epter þvi ſem hañ hefur ſig i Ordenu openberad, og þu viter og þecker

þig

þig ad vera af Gude Fødur skapadañ, af JEsu Christo Endurleystañ fra eilijfre Glotun, og af heiløgum Anda helgadañ, fyrer Guds Ord og Sacramenteñ i Christneñe, þar med ad Vilie Guds sie þijn Helgun, þvi þu ert til Helgunar, eñ ecke til Ohreinleiks kalladur, og til goodra Verka i JEsu Christo, af Gude skapadur, og hvad añad Guds Ord þier uñ þijn Saaluhiaalpar Efne Undervijsar.

Þar næst hlijtur Tried i Grundvellenum ad Rootfestast og nidursetiast, þvi þo þad ligge Rootlaust ofan a Jordune, hvorsu good sem hun er, þa er þad og heiter fweñ Fauskur, eñ ekke Trie. Eñ þvi fastara og diwpara sem Tried med sijnum Rootum er plantad i Jordena, þvi Friosſamara er þad.

Eins skalltu vita þiñe Trw er vared; þvi ein laus og Ogrundvollud Vitund af Gude, stodar ei nie hiaalpar, so sem Dioflaña Dæme sijner, hvorier af Gude vita, eñ hafa þess eingeñ Not. Þar

fyrer hlijtur þu Root þiñar Trwar ad festa og Groodursetia i Guds Orde, og Fyrerheitum JEsu Christi, so þu af þeim lærer Gud ad elska, honum i Nafne JEsu Christi til alls Goods ad trwa og treysta Lijfs og Saalar vegna. Og so sem Rooteñ fyrer Plantan Triesins i goodre Jord, dregur ad sier Vokvan, so hañ sijdañ uppdragest i Greinernar, briootest wt og bere goodañ Avoxt. J sama Maata, ef þu fyrer saña Trw a JEsum Christum, epter hañs Orde, verdur honum sialfum iñplontud, þa dregur þu ad þier Vokva og Krapt hañs Elsku, fyrer heilagañ Anda, hvor sijdañ i ollum þijnum Verkum, Dagsins Jdiu og Utriettingum, sijner sig i Kiærleika vid Naungañ, svo sem eirn goodur Avoxtur, Gude þeckur og Moñum kiær, og þo ad Kvister og Hnwtar synest i bland med, af Mañlegum Brest og Ofullkomlegleika, þa mun DRottens Raad og Medalganga JEsu Christi so tilskipa, ad þess verdur ecke giætt af hañs

strangq

straanga Riettlæte, þvi velldur hans mykla Mÿskun og Elska til þijn.

Giefum ockur nu þar fyrer Saala mijn, alvarlega i Trwne a Jesum Christum til þess Asetnings, ad vinna Trwlega og trwtrietta Christelega ockar Embættis Hondlan i Dag, bidiande og treystande af Hiarta, ad heilags Anda Kraptur mune reidubwen vera, ockur ad styrkia i þvi enu Gooda, so sem friosamt Himens Regn yfer plantad Trie. Holldum ockur þad frekast Mogulegt er, fyrer Naaduga Hiaalp heilags Anda, fra Syndunum, Raanglæte, Lete, Idiuleyse, Vielum og Underferle, Lyge, Bakmælge, Bloote, Formælingum, Ohreinferdugum Ordum og Verkum, Osund, Agyrnd, Hatre og Reide, og eirna mest fyrer Holldlegu Athugaleyse, því huxande ad ætijd er Von a, HErran kome ad leita og heimta Avoxtinn af sijnu Trie, uppa hvort han so myklu kostad hefur, sem er sijnu eigen Bloode, Lijfed er Fallvallt,

Daudenn

Daudenn vijs, enn Stunden er Ovijs.
Kieppustum þvi nu vid i Nafne DROtt-
ins, ad vera ecke fwenn Faukur, enn sijd-
ur eytrad Skada Trie i HErrans Alden-
garde, Fwnum Fausk verdur i Elld kast-
ad, Hvad mun þa af þvi Eytrada Trie-
nu verda? Oxen er til reidu vid þess A-
vaxtarlausa Triesins Root sett, svo þad
upphoggvist, Gud lꜳte ockur ecke fyrer
þeirre Reide-Oxe verda nu i Dag.

O! þu Giæskurijkaste JEsu minn End-
urlausnare, Vokva þu mig, þitt visna og
þurra Trie, med Krapte þijns heilaga
Anda, so eg i minne Stiett og Kallan, fære
þier þæga og þecka, Jaa, þacknæma A-
vexte riettrar Lifande Trwar, i ollu þvi
eg giore, hugsa og tala a þessum Deige,
enn vardveittu mig fra ollum illum Avoxt-
um, þennann Dag og alla Tijma, og For-
mælltu mier ecke i þinne Reide, þo eg sie
Avaxtarlijtell, helldur Myskuna mier,
fyrer þijns heilaga Nafns Saker, Amen.

Kvolld

# Kvølld þeinking a Midvikudageñ.

SAncte Marcus i 14. Capitula gietur uñ; Ad þa JEsus uñ Kvøllded setteſt tiꝉ Bords med Poſtulunum, og hañ iñsette Kvølldmaalltijdar Sacramented, hafe hañ medal añars ſagt, ad hañ villde ecke Framveigis drecka af Vijnvidar Averte, þar til hañ drÿcke þad nijtt med þeim i Guds Rijke, Hvar af Audraaded er, ad Vijnvidar Avoxt hafa þeir fyrer Herrañ a Bord bored.

SAla mijn, Kvølld þeſſa Dags er nu komed, hvad ſkyllder þu, nu helldur gyrnaſt, eñ þad, ad JEſus, Lijſſins og Lioſſens HErra og Drottiñ, villde nu verda Bordſitiande Geſtur

ur þijns Hiarta, ſvo hañ þar iñe Seſs og Sæte hefde? Hvar með og þu með þiñe Kvølldbænar Andvarpan, villt honum til þijn iñbiooda. Eñ hvar er nu ſaa ſæte Wijnvidar Avøxtureñ þiñar Trwar, edur Kiærleikans Verka, og chriſtelegs Framferdis, ſem þu villt þijnum HErra, Broodur og Brwdguma, þeim eilijfa Guds Syne, nu frambera og biooda, hvorium þu hefur nu i Dag ætt ad iñſafna i þitt Hiartans og Samvitſku Hws, með hvorium þu ætter og ad tilreida og prijda þijns Hiarta Herberge? Attir þu ecke i Dag ad vera eitt lifande og frioſamt Trie, með ſætum Avøxtum? Eñ Guð nærde, añad hvørt ey þad ad þeir haſa ecke ſynt ſig i þvi ad ſpretta, eda þeir eru hvorge nærre vaxner, og eru þvi Odugsanleger, ſwrer og beiſker, og ecke til þeſs Natturlega Sætleiks komner, eda þeir eru af adſkilianlegu Rike og Dupte Syndaña, Hræſneñar og Veikleikans ſaurgader, og þvi með øngvu moote þvi-

lijkum HErra sijnande, enn sijdur bioodande.

Mijn Sæl, Ransaka nu sialf. Tvenn ockar a Gud, hvad veik og dopur hefur hun vered i Dag? Polenmæden lijtel, Verkenn lok, og oll full med Hræsne, Breste og Synder, og allar ockar Riettlætingar andstyggelegar fyrer Gude, eins og saurugt Klæde Bloodsiukrar Kvinnu; Hvad munu þa vera sialfar Ranglætingarnar? Margt gott er Ogiort sem gioraſt atte; enn margt illt giort, sem ecke gioraſt skyllde [illegible] allt er Onytt og Odüganlegt, þad hvar giort huxad og talad höfum. Og ef þeir eiga ad medkienna sig Onyta Þiona, sem giort hafa sijns HErra Skipan, hvad skulu þeir þa heita, sem ecke ad eins hafa forsoomad Herrans Befalning, hell dur og so þar þvert a moote giort? Enn hvad skulum vid seigia mijn Sæl? Skulum vid so leggia ockur til Svefns, og trwa Naturmyrkrunum umm ockur ad vid hofum ecke

HErrann

HErrañ ockar JEſum ſñ i ockar Hiart-
ans Hws feinged? Pad læte Gud ecke
ſke. Eg ſtend og klappa uppa Dyrnar
ſeiger Lauſnareñ ſialfur, ef nockur vill
upp fyrer mier læta, þa vil eg iñganga,
og Kvøllds-Verd med honum hallda. Læt-
um þvi upp fyrer honum ſem ſkiotaſt
miin Saal, þo efnalijted ſie fyrer ockur, þa
er hañ hoogvær, og af Hiarta Lijtelætur.
Hañ þæde Stycke af ſteiktum Fiſke, og
lijteñ Hunangs Seim af Læreſveinunum.
Vijſt mun hañ og þad þyggia, ſem vid til
leſum, þa vid þad innilega frambiood-
um. Setium fram fyrer hañ þa Averte
Fyrkiutrieſins ſem hañ vill þyggia og hafa,
ſem er eitt audmiukt lijtelætt og ſundur-
knoſad Jdrande Hiarta, og bidium Fyr-
ergiefningar allra ockar Afbrota, Mis-
giorda og Synda, Setium og fyrer hañ
ſætañ Fyrkiutries Avoxt Packlæteſins,
og prijſum Myſkunſemd Fodurſins, ſem
ockur hefur umlided, Medalgaungu So-
narens, fyrer hvoria vid hofum umlideñ
vered

vered i Dag, ſvo ſu ſaarbeitta Reide Oren̄ Drottens hefur ecke þvilijkt Ofrioſamt og þurt Trie, ſem vid hoſum vered, med ollu upphoggvid. Prijſum og þockum Hiaſtod heilags Anda ſem ecke hefur ockur med ollu Vokvalauſan̄ Fauſk verda laated, fyrer hvorn vid nu kollum og ſeigium, Elſkulege Fader, og JEſum Chriſtum riettelega nefnum i ockar Bænum. Loſum og heidrum Gud DRotten̄ ſem ongvar ſkadlegar Lijfs nie Saalar Plaagur liet yfer ockur falla a þeſſum Deige. Setium og eirnen̄ fram̄ ſætan̄ Vijnvidar Avoxt, i Kiere Trwaren̄ar fyrer JEſum, ſem er han̄s eigen̄ Bloods Heilagleike og Forþienuſta, uppa hvoria vid ockur fyllelega reidum, til fullkomen̄ar Forlijkunar fyrer Gude, þvi han̄s Blood hreinſar ockur af allre Synd, og i ſoddan̄ Trw og Trauſte a han̄s eilijfa Giæſku, Medalgongu og Forþienuſtu felum vid ockur honum nu a Valld og Vernd a þeſſare tilkomande Noottu og ætijd. Þeſſa mijna nu

framſetta

añsetta Fijkiu og Vijntries Avexte, po af miñe Alsu til, veiker sieu, þigg þu nu med lijtelætu Myskunar Hiarta, miñ elskulegaste Herra JEsu, og vertu so velkomeñ Giestur mijns Hiarta og miñar Saalar, og vardveit mig og allt mitt, under þiñe Blessan, þessa Noott og alla Tijma ad eilijfu, Amen.

# Morgun Þanke a Fimtudageñ.

Sankte Lucas skrifar i 12. Capit. Ad miog sneña hafe Foolked safnast ad JEsu, þa hañ var komeñ i Mustered i Jerusalem til ad kieña.

Jrdtu nu fyrer þier Saal mijn a þessum Morgne, hvorsu ecke allèinasta Jsraels Syner, a þessare Tijd señ JEsus hier uñgieckst til hañs flyctust

ctuſt ad heira hañs Ord og ad byggia hañs Goodgiorder, helldur og eirneñ hugſadu nu, hvorſu mykell hoopur heilagra Eingla og Utvalldra Sælna a þeſſare Morgunſtund (ſem og ætijd) klædder hvijtum Skrwda med Palmavid i ſijnum Hondum (ſeiger Johañes) ſtanda frame fyrer Tignar-Stoole JEſu Chriſti, og lofa hañs heilaga Nafn, og prijſa hañs Velgiorder. Hugſadu til, ad þu ætt ad verda i þeirra Tolu um̃ ſijder, og med þeirra fogrum Selſkap ad lofa þiñ Lauſnara ad eilijfu. Taktu þar fyrer i þijnu Hiarta med þeim under, med þiñe Morgun Lofgiord og Bæn.

Virdtu nu og eirneñ fyrer þier, hvorſu morg hiartnæm Andvarpan og Bæn Guds Barna um̃ allañ Heimeñ, mune nu hliooma fyrer Eyrum DRottens, ſo ſem vel ſamſtillt Hliodfære Fagnadarens, hvoriar hvorſkins Reikelſe ſætara fyrer honum Ilma. Og i añañ ſtad hvad mykel Myſkunſeme og marghattud Bleſſ-

an ofañstijgur til þijn, og so sem aistwdlegt Himen Regn, ofan drypur fra DRott- ne aptur, yfer þau bidiande Guds Born.

O! mijn Saal, vertu ecke ein epter ad bidia so þu verder ecke ein epter Blessun og Myskun ad þiggia, Laattu ecke DR- otteñ sakna þiñar Morgun-Bænar og Packargiordar; so þu ecke þurfer ad sak- na DRottens þijns Blessunar og Hiaalp- ar. Laattu DRotteñ siña þitt Bænar Offur fyrer hañ uppflutt af trwudu Hiar- ta, svo mun hañ og laata þig siña ofañ til þijn stijgand: Blessan og Myskun af Fod- urlegu Elsku Hiarta. Bid þu i Nafne JEsu, so Blessast þu i Nafne JEsu, þvi- ad i honum eiga allar Piooder ad Bless- ast. Vertu ecke sijdur eñ Fuglarner, [illegible] þu sier ad Uppreñande Sooluñe fag- na, eda þeir Aumlegu Hrafns Ungar, sem HErrañ akalla. Virdtu og fyrer þier hvorsu pad Einglar DROtteñs standa Reidubwner, ad hlijda sijns HErra Bo- de, nær sem hañ vill þeim befala nockud

ad

ad wtrietta, hvar fyrer þeir kallast Pioon-
ustusamer Andar, og aller tvwer Verk-
Meñ DRottens i þessum Heime, eru
Vaknader, og marger alla reidu wtgeing
ner i sijns HErra Vijngard ad viña,
hvor epter siñe Kallan, hvar fyrer þeir
og kallast Trwlynder Pioonar. Ver-
tu og so til Reidu Saala mijn i þiñe Stiett
og Kallan, ad frambiooda þijnum Dr-
ottne þijna Trwa og skinsamlega Pioon-
ustu, hafande þad ætijd fyrer Sioonum,
ad þu ert alldrei so stodd ein edur hia odrum
i Lioose eda Myrkre, ad þu siert ei i Aug-
syn og openberum Sionum Guds og hei-
lagra Eingla. Himeneñ er mitt Sæte,
og Jord ñ Skor miña Foota, seiger
DRotteñ. Under þessu DRottens Haa-
sæte og a hañs Footskor lifer þu og ert fyr-
er hañs openberre Augsyn, Jaa, sa sem
Augad skapade, skyllde hañ ecke siaa? Og
sa sem Eyrad plantade skyllde hañ ecke
heyra? seiger Guds Ande fyrer Muñ Da-
vids. Vanda þar fyrer Verk þijn fyr-

er DROTTens Augum og eirneñ þijn Ord fyrer hañs Eyrum, ſvo þu hañ ecke ſtygger nie til Reide reiter, under hvoriūm þo þijn Lijfs og Saalar Heill er komeñ. Þu att ad heita Samþioon heilagra Eingla; Gior þu þig þvi ei ſialf med vitanlegum Glæpum, Samþioon Dioflaña; Þu bidur Guds Vilie ſkule verda ſo a Jordu, ſem a Himnum, brioot þad ecke vijsvitande og þverwdarſamlega nidur i Verkunum i Dag Viñande, ſem þu i Morgun bidur med Ordunum uppvaknande.

O miñ HErra JEſu, æn þijn ſæ eg einſkis orkad, kom þu nu mier til Hiaalpar; Siaa þu miñ DRotteñ, giarnañ vil eg reidubweñ vera, ad þioona þier, og giora þiñ Vilia, eñ eg er bæde i Vilianum veikur og i Verkunum þo eñ veikare, og i allre goodre Utrietting Kraptalaus, eñ gef þu bæde alvarlegañ Viliañ og ſtyrkvañ Krapteñ, med þijnum heilaga Anda, ſo eg giore hvad þier þocknaſt, eñ vareſt allt hvad þier misþocknaſt. Bleſſa þu DRotteñ

otten oll mijn Verk og Viñulag, og þo eg mig Missiare eda syndga meige, i hvorn Marta bad kañ ad skie, þa bid eg þig Hiartanlega ad þu hrinder mier ecke under Skor þiña Foota, med þijnum Ovinum, helldur lijd þu mig a þiñe Footskor, vid þijna Mijskunar Fætur, svo eg meige sediast aptur og glediast, af Mol m þiñar Nardar, og verda hialplegur i JEsu Nafne, Añ.

# Kvølld þeink ng a Fimtudagen.

Sancte Johañes i 13 Capitula Fraañsetur eina merkelega Historiu, og seiger, Ad epter giørda Kvølldmaaltijd, hafe sialfur JEsus Sonur Guds þveiged Fætur siña Læresveina.

Sia þu hier Saala mijn, hvad furdanlega lijtelaatur þiñ Herra Ier, ad hañ þóttest ei ofgoodur ad

þvo Fætur ſiña Lærefveina, ſkoda nu þar fyrer þijnar Fætur og giæt ad, þu hefur nu i Dag, eñ aufram geinged a Gotu þiñar Lijfdags leidar, ſo opt ſem þu i Dag Syndgad hefur, og añadhvort giort þad ſem Gud hefur þier i ſijnu Orde bañad, eda ecke lofad, ellegar og lauted þad Ogiort, ſem hũ hefur þier ſkipad, ſo opt og miog hefur þu ſaurgad þijnar Fætur, og ſleckad ſiaalfa þig og Samvitſkuna. Nu er þad hvorutveggia, ad ecke megnar þu þeſſe Saurendeñ af þier ad þvo, med þijnum eigeñ Krapte, og ecke þo þu græter Bloodugum Taarum, ecke helldur fær þu med Ohreinum Footum iñ ad ganga i þa Himneſku Jeruſalem, nær þu hier vid ſkilur, þvi Johañes ſeiger i ſijnum Openberunum, ad eckert Saurugt meige þar iñ gaunga nie koma. Miñſtu hvad JEſus ſagde vid Petrum, Ef eg þvæ þig ei, þa hefur þu ongva Hlutdeild medur mier.

Hier heyrer þu ad JEſus vill ſiaalfur þvo Fætur Petri, Kom þu nu þa i JEſu Nafne

Nafne, og Naadar trauste, med eirnre
hiartanlegre Jdrande Bæn. Riett þu þiñ
sauruga Foot ad JEsu, hafer þu i þiñe St-
lett og Kallan i andlegre og Lijkamlegre
Jdiu edur Skylldu þijns Embættis, fyr-
er Gude og Moñum, leint eda openberlega
a DRottens Footskör syndgad med For-
sòomun, Lete, Hyrduleyse edur Bæn-
ræktarleyse, Kiærleiksleyse, vid Naung-
añ, edur i nockru, einu edur ödru, stooru
eda smaau Gud stygt, Samvitskuna fleck-
ad, og Naungañ hneyxlad, þa legg ecke
þijn Augu samañ fyrr eñ þu hefur i eirnre
sañydrande Hiartans Bæn fyrer JEsum
þiñ Lausnara og Medalgangara, þetta fra-
mlagt, Fyrergiefningar beded, og i sañre
Trw, Saatt og Frid, fyrer hañ, og af
honum ödlast, og hugga þig vid þad, ad
hañ vill þig allañ hreinsa af öllum Synd-
um, med sijnu heilaga Bloode, þvi þar til
er hañs heilagasta Hiarta opnad og þadañ
Blood og Vatn wtruñed, ad þad skule
vera eirn fry opeñ Bruñur og Uppspretta

til ad hreinsa Saal og Samvitsku ydrande Maña, af øllum daudlegum Syndum. Lijtelætlega kom þu Saala mijn, fram fyrer þañ lijtelæta JEsum, hañ vill og mun þig hreinsa af allre Synd. Og i þeirre Trw, og Hiartans Von, til hañs Myskunar, gefum nu Svefn Augunum, og Hvijld Lijkamanum. O þu allra Lijtelætaste JEsu, hreinsa mig vel af Synd miñe, og þvo mig vel af Illgiord miñe, þviad a moote þier hef eg Syndgad, eñ eg trwe þo ad þitt Blood hreinse mig af allre Synd; Og i þeirre Trw, fel eg mig þiñe Myskunseme nu og ad eylijfu, Amen



## Morgun Þeinking a Føstudageñ.

JOhañes Gudspiallamadur i 18. Cap. seiger Ad sneiña Morguns hafe Herrañ JEsus bundeñ,

afhendtur vered Pilato Landsdoo-mara.

Skilldugt være þad Saala miin, ad þu lieter hier þetta til Hugar koma, a þessum Dags Morgne. Og so þu nu til þacklætis uppveker þig sialfa, fyrer DRottens Velgiorninga, þa byrdtu fyrer hier, hvorsu Onæðarsama Kvala Nott, HErran JEsus hafe aut a mille þeirra Ogudlegu Skalka, sem hann spottudu, Hnefum sloou, og Hrækum spijttu, svo ad sa sem Roosemd hefur ollum Skiepnum gefed, skickad og skamtad, fieck ei sialfur uni eitt Augnablik, enn minstu Hvijld nie Roo. Hier a moot hefur þu nu under Verndar Hende DRottens hafft, bæde a þessare Nottu og Morgne, og margre aññare, sæta Værd og Roosamlega Hvijld, og þar vti hefur þu ecke noted sialfrar þiññar, helldur Herrans JEsu Forþienustu, og þeirrar Onæðar sem hann fyrer þig leid, Vertu hon-

um þar fyrer þacklæt af Hiarta Sæla mijn, og minst eñ framar, ad med sijnum Bøndum og Fiøtrum, i hvorium hañ var Pilato ofurselldur, under ræingañ Dauda-Doom, Riettlætur og Heilagur sneña Morguns, hefur hañ þig frelsad og frijad, so þu skyllder ecke i Daudans Fiøtrum og FordæmingarBøndum, under riettañ og forskulldadañ DaudaDoom, þeim Riettferduga Doomara, sialfum JEsu ofurseliast a Dooms Deige Rænglæt og Syndug. Minstu uppa, ad sialfur JEsus villde læta sig saklausañ til Dauda dæma, svo þu skyllder ei af honum sialfum, Sakadur, til eilijfs Dauda wrskurdast. Eñ fyrer allt þetta heimter hañ ecke af þier, nema Packlæted, i riettre Trw frambored. Offra þu DRottne Lofgiørdeñe, seiger David; Packa þu þar fyrer Saala mijn, JEsu þijnum Lausnara fyrer sijna elskulega Mysku og i hañs Nafne upphef þitt Hiarta til Guds Fodurs, og gior honum alla Tijma Packer fyrer JEsum

sum Christum, byriande þad nu a þessare Morgunstundu. Og til eins vissélegs Merkis, ad þitt Packlæte sie ecki toom Hrœsne, þa gack nu til ad wtrietta þyn Verk i þiñe Stiett og Kallan i Guds Otta og Hlijdne vid hañ, til Gagns sialfre þier, og Naunganum til Nota.

JEsus liet sig med Fiotrum binda þiña vegna, Bind þu nu Vilia og Gyrnder Holldsins, med Bondum DROTTens Orda, og Fiotrum hreiñrar Elsku til Guds, og Kiærleika til Naungans fra ollu Rangslæte, þad frekast þier fyrer Guds Naad moguleat er. Betra er þier ad DRotteñ siñe þig nu med JEsu Christo, svo sem bundeñ fra ollu Illu, med Elsku-Bondum til Guds og Naungans, eñ þu med Gydingum siert laus til Illra Verka i Holldenu, eñ a Sauluñe Fiotradur fra Goodu, med Bondum Heimsins og Holldsins Elsku. Af Ast og Kiærleika til þijn, giorde JEsus og talade allt þad hañ hefur hier i Heime giort og

Es tal,

talad. Laat þar fyrer oll þijn Verk og Ord i Dag framkoma af Elſkuñe til hañs aptur. Af Elſkuñe til þijn leid hañ fyrer þig Pijnu og Dauda, Svo lijd þu og af Elſkuñe til hañs aptur, allt þad hañ vill a þig leggia. Af Elſku og Kiærleika þiente hañ þier, ſo þu yrder Eylijflega Hiaalplegur.

Pioona þu nu, og hiaalpa Naungañum, Af Elſku til þijns Endurlauſnara. Hañ aaleit Porf og Naudſyn þijna Obedeñ, aalijt þu hañs Vilia og Bodord, ſem hañ þier ſkipar. Hañ hneigde og hagade ollu ſijnu Lijferne, þier til Frelſis fyrer Gude og Fridar fyrer þiñe Samvitſku, og Virdingar fyrer heilogum Einglum.

Laattu nu Saal mijn, og gleim ecke, Laattu nu (ſeige eg) þiñ Hiartans Aſetning vera þañ i Dag, ad haga þijnu Lijferne, Leint og Liooſt, i ollu þvi þu hugar, giorer og talar JEſu Chriſto til Æru, Guds Einglum til Glede, Naunganum til Pionuſtu,

ustu, so þu meiger gooda Samvitsku, sem JEsus þier med sijnu Bloode keypte, Oflekkada geima. Laattu mig niota Pijnu þinar og Pijslar Saara, minn HErra JEsu, og laat minn Vilia alldrei til Jllslausann verda, Leif þu ecke nie lijd mier, ad Syndga a þessum Deige, og uppræt mig ecke Skindelega i þinne Vandlætingu, þo eg Syndge, Lof og Dijrd sie þier ad Eylijfu, Amen.



# Kvølld þeinking a Føstudagenn.

Hiaa Matth. i 27. Cap. stendur skrifad, Ad umm Kvøllded, þa HErrann var a Krossenum Andadur, hafe Joseph af Arimathia komed, og ad feingnu Leyfe Pilati Lands-Doomara, hafe hann Lijkamann Jesu ofan teked, og i hrein

um Lijndwkum ſveipad og i nija Grøf lagt, Johañes ſeiger, ad Nicodemus hafe lijka komed med dyrmæt Smyrſl og epter allt þetta, Jñſigludu þeir Grøfena Christi.

Atum ockur nu Saal mijn hugahier nockud glør epter, adur eñ vid ſofnum.

Fyrſt merkium nu, ad hvorſu Joſeph og Nicodemus þordu ſig ecke fram ad giefa, allañ Pijnu-Dageñ Christi, og fyrer Otta ſaker, kuñu þeir ſig i ongvu Merke Opinberlega ad ſyna, þad þeir være JEſu Elſkendur, þo villdu þeir ecke fyrre ſofna, nie Augum ſijnum Værd giefa, eñ þad þeir høfdu Lijkamañ JEſu Jardad.

Audgiort er þad Saala mijn, ad vid høfum vegna adſkilianlegs Hollds Veikleika, Heimſins Hindrana, og Diøfulſins Viela, hindraſt og framhalldeſt i Dag, ad audſyna ockur i goodum Verkum, rietta JEſu Læreſveina. Spyr þu nu Saala mijn

mijn, Guds Liju Bodord þar ad, og þijna eigen Samwitsku, hvorre kuñugast er um̃ þitt Framferde. Legg þig þess vegna ei til Hvijldar ad giefa Værd Hollds sins Augum, fyrr eñ þu hefur nu med einu þijnu Dags Verke, (þo ecke sie meira) audsyndt þig ad vera JEsu Eskanda.

Joseph vard ad bidia Leyfis, ad meiga þañ Framlidna JEsu Lijkama ofan taka af Krossenum, Eñ þu hefur ecke ad eins feinged Leyfe, helldur og eirneñ alvarlega Befaling Guds i hañs Orde, ad þu skuler JEsum Christum fyrer þig, ei ad eins Deyddañ og Grafeñ, helldur og eirneñ af Dauda Uppriseñ, med Hond þinnar Trwar til þijn taka med allre siñe Hlijdne, Forþienustu og Riettlæte, so þu hafer Fyrergiefning Syndaña og eilijft Lijf i hañs Nafne.

Joseph tilbioo sijna Grof, og tilreidde nija Lijndwka, þeim Andada JEsu Lijkama til Hvijldar. Hvad miklu framar bære þier nu ad tilreida Hiarta þitt til Hvijl-

bar og Ibwdar þeim lifanda JEſu, ſvo þu ecke iñlegger þañ Dyrdlega Fieſiood þiñar eylijfrar Saaluhialpar i eina fwla, Andſtiggelega illa lycktande Grof eins Syndafulls og Idranarlauſts Hiarta. Riettu þar fyrer Hond þiñar Hiartans Bænar og Andvarpanar i riettre Trw, wt a moote þijnum Lauſnara, og i ſañre Hiartans Idran, bid Lijtelaatlega þiñ Drotteñ, ad þu meiger JEſu Chriſti Pijnu, Dauda og Uppriſu, til Fyrergiefningar allra þiña Synda niootande verda. Tak þu a moote honum med Hond þiñar alvarlegrar Trwar, ſvo þu af Hiarta treyſter þvi og trwer, ad Blooded JEſu Chriſti hreinſe þig af allre Synd, og ad þu ſiert fyrer hañs Beniar Heilbrygd vorden, og hafer fyrer hañ, Frid vid Gud i Trwñe, og Fyrergiefning allra þiña Synda i JEſu Nafne. Og i þeim hreinum Lijndwkum DRotteñlegra Fyrerheita forvara þeñañ Fieſiodeñ i einu Endurnijudu Hiarta, med Chriſtelegum Aſetninge, ad legaia

ſi,

af, þad frekast mogulegt er, Syndsamlegt Lijferne. Siaa þu þvi til, ad þad sie þijn Hiartans Astundan, iñeleg Epterlaangan og Fysn, fyrer Hiaalp heilags Anda ad þu ecke sofer einungis fra Lijkamans Ervide, helldur myklu framar sofner, Jaa, deyer fra þijnum Syndum, svo ad þu ecke ad eins Olweñ a Morgun vakner til Ervidesins, helldur myklu framar med Endurnijudu Hiarta, og Hugskote vakna meig er, i Siñe og Huga til Gudhrædslu og goodra Verka, og hafa ætijd til Reidu Ilmande Smyrsl Hiartanlegrar Packargiordar, Bænar, Trwar, Vonar og Poleñmæde, fyrer Styrk heilags Anda.

Par sem þu Saala mijn Ervidar so þeñañ Dag, med Hiartans Jdran, Bæn og Andvarpan i saññe Trw og Trauste a JEsum Christum, og alvarlegum Asetninge, Gyrnd og Epterlaungan, ad betra þitt Lijferne med Hiaalp DRottens, þa syner þu þig eirn riettañ JEsu Læresvein, og maatt vera viss þar uñ, ad ecke allein-

aska

asta þocknast Gude og þijnum HErra JEsu Christo soddañ Heilog Jdia og Heilnæm Kvolld-Viña, helldur og eirneñ mætti O-efud vera þar uñ, ad allar þijnar Synder, eru Eyliijflega i Daudanum Christi, af og fra þier deiddar, og grafnar, Og i þeirre Trw, vilium vid nu sofna gløð i JEsu Nafne.

O! miñ Elskulegaste JEsu, Aumt, Vesallt og Syndsamlegt er allt mitt Lijf og Framferde, Eñ eg bid þig, ad þijn Heilaga Kvol og Pijna, Forlijke mig og Fridþæge vid Gud, og mig hreinse þitt Heilaga Blood af øllum mijnum Syndum, hvoriu eg Eflaust treyste, Deyd þu fyrer þiñ Dauda allar illar Girnder i minu Hiarta, Og fyrer þijna Gledelega Upprisu, þa reis þu mig upp wr Grof miña Synda, svo eg lise þier til Lofs og Dijrdar, þessa Heims Stundlega, og aňars Heims Eyliijflega, Amen.

* * * * * *

Morg-

# Morgun þeinking a Laugardageñ.

Hia Matth. 125. Capitula seiger Endurlausnareñ vor Lioslega: Ad epter uñlidna Tijd þessa Heims, og i Upphafe tilkomande Eylijfdar, mune hañ sialfur koma i Dijrd og Magtarvellde til ad dæma Lifendur og Dauda, Og verda i þeim Doome Ogudleger Meñ wrskurdader til eylijfrar Fyrerdæmingar, eñ Guds Børn til eylijfrar Sælu og Dijrdar.

MIJn Saal, so sem þu nu ai medal aña ra lifande Maña hier a Jørduñe, a þessum Morgne ert Uppvøknud, og rijs upp wr þiñe Hvijlu. So skalltu vita, ad a þeim almeñelega Upprisu Deige alls Holldz, attu og eiñ-

eñ upp ad rijsa, og fram fyrer DRottñ ad koma, þvi svo seiger St. Paull, Aller munum vier byrtast fyrer Doomstoole DRottens. Huxa nu um fyrer þier, ad JEsus seiger sialfur, þeir Riettlaatu munu skijna sem Sool i Rijke sijns Fodurs, ætijd og ad Eylijfu, Og St. Paull seiger, þeir Utvøldu munu Upprijsa Dijrdarleger, Osorgeingeleger, Forklaarader, Item, Vier munum hia DRottne vera alla Tijma, og sia Gud Augsite til Auglitis. O! hvorsu Æskelegt, Gledelegt, O-uppgrundañlegt og Unnumarsamlegt, ad er Samfielag og Hlutdeild med þeim Utvøldu, Allskijnande, Dijrdarlegu og Forklaarudu Guds Børnum? Hvorsu mun þad Omælanlega Lystelegt ad lifa hia Gude, og sia Gud ad Eylijfu?

Eñ mijn Saal, hygg þu ad, Añadhvort leita Meñ epter þessu i þessum Heime, svo þeir faa þad Ef-aust i'odrum Heime, ellegar Meñ Forsooma þad svo i þessu Lijfe, ad þeir faa þad alldrei i ødru Lijfe.

Og

Og ad þvi verdur þeim sem med eirnre Hryggelegre Asynd, Ope og Kveine til eylijfra Kvala i hin ytstu Myrkur med Dioflenum og hans hrædelegum Arum, verda fraa Gude og allre Glede Von wt rekner.

Þar fyrer mijn Saal, Hugleidtu med þier, ad þu þennan Dag og alla Tijma, kappkoster ad verda funden i Tolu Guds Barna nu i Naadenne, svo þu funden verder i Tolu Samarfa JEsu Christi i Dijrdenne. Vilier þu annars Heims skijna sem Soolen i Dijrdenne Utvalldra, þa Kappkostadu ad skijna i JEsu Riettlæte hier i Heime, hvort þu odlast fyrer sanna Trw. Lioome nu þijn Trw fyrer Gude i Hiartanu, og leyptre eda lyse, þad framast Gud giefur þier Naad til, i elskunne til Guds og Naunngans, fyrer Monnunum, þa muntu eflaust liooma fyrer Gude og hans heilogum Einglum i Eylijfdenne. Vilier þu verda med Christo Dijrdarleg, þa lattu þier lynda med Polenmæde, þo þu epter

Guds

Guds Vilia hlíooter ſtundum ad ſíjnaſt hier aumleg. Vilier þu verda þar Oforgeingeleg, þa elſkadu ecke ofmiog hier þad forgeingelega. Vilier þu þar verda Forklarud, þa ſiaadu til, ad þu Daglega fyrer ſaña Jdran og Yferboot, forklarer þitt Hiarta.

Vilier þu þar vera hia DRottne alla Tijma, ſo bid þiñ DRotteñ ad vera hia þier, med ſijnum Anda og Naad, alla þijna Hiervíſtar Daga.

Vilier þu þar ſia DRotteñ Auglite til Auglitis; So ſkignſtu hier epter DRottne med alvarlegre Eiſku og Epterteckt hañs bleſſadra Orda. Vilier þu eiga Samfielag med Guds Børnum i eylijfre Sæłu, þa kieppſtu vid ad eiga Samfielag med þeim ſomu hier i Heime, i Trwñe, Bæneñe, Jdraneñe, Hlijdneñe, og chriſtelegu Framferde, og ſkañaſt þijn ecke ad hafa Samfielag med þeim i Kroſſe og Mootgange, med Þolenmæde. Vilier þu fa Hlutdeilld i eilijfum Himneſkum Saaſ-

uu

um og Giædum, þa kappkosta þu ad fara vel med þad Hlutskipte, sem Gud hefur þier i Hendur feinged af Jardneskum Gaafum og Giædum. Nu hefur hier wtskamtad Hlutskipte Tijmans, a hvøriu þu lifer, Hlutskipte Platzins, a hvøriu þu hrærest, Hlutskipte Goß og Peninga, med hvørt þu hondlar, Hlutskipte Heilsuñar, i hvøriu þu gledst, Hlutskipte Embættesins i hvøriu þu þioonar, og hvad añad DRottens Raad, þier Lijkamlega og Andlega Utdeillt hefur. Asettu þier nu, og astundadu Hiartanlega fyrer Adstod DRottens, med allt þetta so ad hondla, ad þu misser ecke þad Eylijfa og Himneska. Eid þu ecke Tijmanum Jdiulaus so þu ecke Ervider añadhvørt med Lijkamanum, Naunganum til Gagns, edur med Huganum, Gude til Lofs i Gudrækelegum Hugtumum. Saurga ecke Platzid med skammarlegu Lijferne. Elska þu ecke ofmiog Goß og Peninga, framar eñ Gud og Naungañ. Slijttu ecke Heilsuñe Jdiulaus

laus, og síjst med Syndunum, vitanlega. Forsmaa ecke nie afræk þitt Embætte, þvi ad af ollu þessu verdur Reikningskapur heimtur.

Minstu jafnañ'a, ad þu eckert þad hefur, sem þitt eiged er, nema Syndena, fra hvorre þu bid Gud jafnlega þig ad frelsa og bevara, Eñ allt gott þad þu hefur, er Laan Guds, hvort þu bid Gud þier ad blessa. Stunda þu svo sem trwr Pioon, vel med þad Pund ad fara, sem Gud hefur þier i Hendur feinged, og med goodum Reikninge og Abata aptur ad skila, og vertu Paa ckláat. Og med þessum Paanka og Aforme, vilium vid nu þeññ Dag byria i Jesu Nafne. Styrk þu mig miñ HErra JEsu i ollu Christelegu Aforme og Athæfe a þessum Deige og alla Tijma; Laattu mig fyrer þiñ heilaga Anda stioornast, svo eg hier i Heime med ollum Guds Bornum, Samfielag eige i Trw Von og Bæn, ollu goodu Frañferde, og heilagre Polenmæde, og veit mier Raad, Vitsku og Raad,

vel

vel og skynsamlega ad høndla med þad Hlutskipte, sem þu hefur mier i Hendur feinged, svo eg fyrer þijna blessada Forþienustu, odlest Hlutskipte og Hlutdeilld med øllum Guds Utvolldum i eylijfu Lijfe, Amen.



# Kvølld þeinking a Laugardageñ.

SAncte Matth. i 26. Cap. Avijsar, Ad a Kvølld Tijma hafe þad skied ad HErrañ vor JEsus (hvor þo ænallra Synda var) hafe under skarpast Ransak komed, og kalladur vered af þeim andlegu Hofdingium og Kieñemoñum i JErusalem; Og þo eingeñ Misgiord yrde mz honum fundeñ, þa vard þo fyrre leitad til Lingvotta, eñ þad hañ skyllde fry verda, og vard su Alyktuneñ, ad aller wrskurdudu og segdu,

hañ

## Hañ er Dauda sekur.

MJJN Saal, Laatum ockur ecke sofna, fyrr eñ vid hofum med einu Orde eda tveimur hier epter seked. Og fyrst spyr eg ad. Ætlar þu nu Syndug og i morgu Brotleg Skiepna ad þu meiger vera Ohrædd og Ugglaus um þad, ad alldrei mune fyrer Proof og Ransak koma og leidt verda þitt Liiferne, sem þu hefur nu i Dag framleidt og giort? O! Nei miin Saal, þvi so seiger Guds Ord, aller munum vier byrtast fyrer Doomstoole DRottens. Item, DRotteñ mun auglysa þad i Myrkrunum er huled og siaalfur Lausnareñ vor seiger ad so mune hart verda Eptergeinged, ad Meñ hliote af hvorri Orde Reikning ad standa. Og hafe þess Heilaga Guds Sonar Liif, under so skarpt Ransak komed, og hafe hañ ecke Skulldlaust af komest, sem þo hafde alldrei neina Synd giort, Hvad mun þa vilia verda fyrer

fyrer þier sem ert i morgu, Jaa; eg maa seigia i ollu Sek og Brotleg fyrer þijnum Gude? Hvar um ecke þarf Liwgvotta ad leita, medan odrumeigen er Sanleikur Guds Heilaga Logmaals, og a adra Hond þijn eigen Samvitska. En uppa þad Saalmijn, þu verder ecke epter þijnu Illu og Syndsamlegu Athæfe Fordæmd, þa tak þetta Raad upp, nu strax a þessare Stundu, medan Gud an þier Naadarenar.

Fyrst legg þu fraa þier allt Forsvar og Fegrun þijns Maalefnis, og af Hiarta medkiendu Lijtelaatlega, ad þad er vijst og satt, ad Eylijfan Dauda Doom og Kvala Urskurd hefur þu med þijnum Syndum Forskulldad, þad laat þig aangra Hræsnislaust, Alvarlega og af Hiarta. JEsus Sonur Guds leid Saklaus, Oforskulldadan Dauda Doom, þier til Eylijfrar Endurlausnar, Fridar og Frelsis, og þvi treystu Vantrwarlaust, Alvarlega og af Hiarta, og aled þig þar wt af. Pier

kiemur nu til Hugar ad þu hafer illa fared med þad Hlutskipte sem þier var af HErrans Hende wtdeilt i Naadeñe, og ert hrædd, þu muner hafa tapad þvi Hlutskipte siñ þier var ætlad i odrulijfe i dijrdeñe

Kom þu nu þar fyrer Saala mijn, med sañre Idran, Hiartans Bæn og stødugre Trw, Tak þu og þigg þa Hlutdeilld JEsu Christi Forþienustu, og hañs Blessudu Pijnu, og reid þig Ohrædd og Efalaust þar uppa, ad hañs Heilaga Blood hreinsar þig af allre Sekt og Synd, og i þvi hañ var Dauda sekur fyrer þig dæmdur, þa ertu fyrer hañ alla reidu fra Daudanum Frials, til eylijfs Lijfs wrskurdud. Minstu þar uppa ad sa hiñ same eñ einger eñ añar, er þiñ Doomare, og fyrst hañ þijna Sekt borgade og betalade, og gaf þig olldungis kvitta fyrer Gude, þa maattu Fullviss vera þar um, ad ecke mune hañ sitt eiged Verk Fordæma, edur siñ eigeñ Betaling Onijtañ giora. Mundu þig ad eins, ad þu hañ ecke med þiñe Vantrw og

og Jdrunarleyſe Onyter, Eñ Kappkoſt-
um vid, ad Syndga ecke framar Wijſvit-
ande uppaa Naadena. Soſum nu med
glødu Giede i Trwñe, giørande Gude
Packer, og latum þad nu vera ockar ſijd-
aſta Aſetning, ſem vid villdum være ock-
ar fyrſta og frekaſta Verk a Morgun, e
Gud ockur lijdur, ſem er ad Ottaſt og
Elſka Gud, og kieppaſt vid ad betra þad
ſem ockur hefur i Dag a orded.

O! miñ JEſu, miñ DRotteñ og miñ
Gud, Dæm þu mig ecke epter miñe Verd-
ſkulldan hvøria eg Ottaſt, helldur frelſa
þu mig, epter þiñe Myſkunſamlegre For-
þienuſtu, hvørre eg treyſte, og ſtadfeſt
mig i þiñe Naad, vid hvøria eg gledſt.
Lof og Dijrd ſie þier, nu og
ad Eylijfu, Amen.





## Nær Madur geingur i sitt Bæna-Hws einsamall, þa mæ hann falla a Knie, lesa svo eina af þessum Bænum i sen, svo hann med David tilbidie DRottenn, siøsinnum, þad er opt a hvørium Deige Kvølld og Morgna.

DHErra JEsu Christe; Eg stend fyrer þier ælijka, sem fatæk Skiepna fyrer þeim fullrijka, mig hungrar og þyrster epter Riettlætenu, Hugsvala þu nu hryggdu Giede mijnu, sinna virdstu Mañen min ad næra, mier af Himnum Nad og Hiælp so færa, hrygg'r Madur a Hniænum fyrer þier stendur, Hiartad breide eg wt og mijnar Hendur, Heyr nu DRotten Hiartans Bænena mijna, fyrer Heilagleik og Forþienustu þijna.

O JEsu Christe, eg stend fyrer þier

Sorgmæddur, sem eirn Præll fyrer sijn-
um HErra hræddur, hladeñ Syndum,
eins og Fugleñ Fiodrum, fell eg tijdt i
Glæpeñ eirn wr odrum, eg em kaseñ Otal
Synda Hrijdum, eins og salle Daggar
Dropar tijdum, eda sem Korn a Siæfar
Sande breidum, so er mitt Hiartad þak-
ed i Gyrndum leidum; Hreinsadu mig i
þijnu blessada Bloode, biarga mier so
Himna Kongureñ goode, fyrer þijn Saar
og albloodugar Under, afplaana þu all-
ar mijnar Synder.

O JEsu Christe eg stend fyrer þier all-
eina, eins og giorde Syndug Magdale-
na, siaadu eg em Glæpe mijna ad graata,
giarnañ vil eg og feigeñ af þeim læta; Fy-
rergef mier Saker og Synder mijnar,
Sonur Guds fyrer Blood og Under þijn-
ar, læt mig þiñe Hiælp og Naad bijhall-
da, hia þier lifa sijdañ uñ allder Allda

O JEsu Christe, eg stend fyrer þier
og kalla, sem Astvin tiaer odrum Anaud
alla, kiendu i Briooste uñ Barned þitt

sem Grætur, biarga þu mier Heilsugiaf-
areñ sætur, hiaalpe mier þijn heilog For-
þienusta, hugge mig þiñ Ande og Orded
besta, frelsa þu mig burt wr Daudans
Dijke, so dyrka meige eg þig i Himnarijke.

O JEsu Christe, eg stend fyrer þier a
Hnianum, sem stoorbrota Madur fyrer
Doomaranum, eg er sekur vid Gud miñ
Fodureñ saña, eg er aumastur allra Ver-
alldar Maña, Lækna þu mig Lijknar Ko-
ngureñ goode, Lauga þu mig i þijnu hei-
laga Bloode.

O JEsu Christe eg stend fyrer þier
harmande, eins og Barn sem grætur un-
daũ Vende, Fodureñ gooda miñ hef eg
reitt til Reide, riett er þo hañ straffe mig
og þijde, Brooder miñ goode bid eg þig
gott til leggia, blijdka hiartans Fodureñ
ockar beggia, eg skal giarnañ hlijdeñ hied-
añ af vera, og hvad eg megna yckar Vil-
ia giora, af illu læta, ydkande so þad go-
oda, epter þvi sem Guds mijns Bodord
hlioda, hiaalpe mier þar til heilagur Gud-
Dooms

dooms Ande, ad hiedañ af eg Rꝛad min betur vande, giöre og tale Gud miñ so þier lijke, gief ad eg lofe þig hier og i Himnarijke.

O JEsu Christe eg stend fyrer þier Hug-gladur, Lausnareñ goode sañur Gud og Madur, sem hefur fyrer þitt heilaga Blood og Under, hreinsad af mier allar mijnar Synder, DRotteñ miñ þiñ Daude og Forþienusta, fra Daudans Krapte hefur oss Endurleysta, fra Reide Guds, fra Satan, Synd og Böle, fra Sorgar-Guste Vijtis Kvöl og Hele, eñ sætt oss vid Himna Födureñ hædsta, Hialpar Klædenu skrijdder þvi enu besta, afrekader oss aptur Lijfed saña; O þu goode Heilsugiafareñ Maña, lofadur siertu Lijf og Liooßed skiæra, lofed skulu þier allar Skiepnur færa, Lofadur siertu Lambed Guds Astkiæra, losed sie þier Heidur Dijrd og Æra, Amen.

Hiartans Fader, so sem þu skijler ockar Lijkama med Klædum, so i skrijd þu

Saalena med andleguin Astar-Giædum, So sem þu Fostrar Hollded fyrer þad Lijkamlega Borded, so Saalena fyrer þitt Guddoomlega Orded, svo sem þu giefur ad vor Augu siaa þañ dijrdlega Dags Liooma, svo gef Saaleñ skode þañ skiæra Himna Bloomañ.

DRotteñ miñ bevara þu mig og allt mitt, ute og iñe, i hvoriu siñe, Stodu og Stræte, Sess og Sæte i Voku og Svesne, stijr og stioorna ollu mijnu Raade og Efne, Amen.

Gud Himneskur Fader vardveite mig, JEsus Christur blesse mig, Fride og Frelse mig, heilagur Ande helge, hugge og upplijse mig; Eingell DRottens mijns geime mig, Raad og Mysktun Guds mijns leide mig, Orded himneska HErrans frede mig, Milldeñ Skaparans mijns fæde mig, Riettlæted Lausnarans mijns Klæde mig, Blooded Frelsarans mijns græde mig, Heilagleike DRottens mijns giæde mig, so eingeñ illur Ande hræde mig.

Gud

Gud miñ giefe mier ad sofna vært og roott a þessare Noott, og ad eg meige aptur vakna med Gladværu goodu Hiarta, so eg Christelega lifa mætte, bæde leint og liooft, til Maals og Giorda, Gude mijnum Giedfelldur, eñ Naungannum Goodgiordasamur, allt Guds Laan riett tijdkande, mijnu Embætte adgiætande, og i ollum goodum Dygdum mig Jdkande.

Gud miñ laate mig lifa Christelega i Dag, bæde leint og liooft, til Maals og Giorda, mitt Embætte med goodre Giætne ad wtrietta, Gude mijnum Gedfelldur vera, eñ Naungannum gott ad giora, allt Guds Laan riett ad tijdka, og i ollum goodum Dygdum mig ad jdka.

D Notteñ miñ giefdu mier gott og frooómt Hiarta, under Soolune, jdiusamañ Lijkama i Dagsbyrtuñe, hæga hviild og sæla Svefn-roo a Nottuñe, bidiande Muñ i Hornungeñe, lofande Tungu i Veleingneñe, Jdnar-Hendur i Naudþurfteñe,

Olatar Fætur i Embættisgaungune so eg allt mitt Dagfar Christelega framleida kuñe, Amen.



# Ungmeña Bænarkorn a Morgna.

I Þijnu Nafne Uppvaknadur,
Er eg JEsu Gud og Madur,
Lof sie þier fyrer Lijf og Giæde,
Likams Heilsu, Føt og Fæde,
Og allt þad þijn O-Preitt Millde,
Aumum mier tilleggia villde,
Bid eg þig miñ blijde HErra,
Blessan þijna ei lat þverra,
Hegdan miñe a hvørium Deige,
Halltu a soñum Dygda Veige,
Laat mig niota Ungdooms Ara,
Er þu barst i Mañdoom klaara,
Gief Uppfræde Æsku mijna,
Ande þiñ fyrer Verkan sijna,
So i Otta og Elsku þiñe,

Avoxt

Hvørt goodañ færa kyñe,
Hlijdne, Trygd og Trwna biarta,
Tendra og Nær i mijnu Hiarta,
Ad mier so med Alldre hroñum,
Aukest Naad hia Gude og Moñum,
Heims og Satans Hreckia Snoru
Hritt fra mier, so ei Ovoruin,
Mig Ogiæteñ i sier feste,
Edur drage i Synd og Leste,
Vernda mig fra Voda øllum,
Vondum Dauda og Slisa Follum,
Einglar þijner ad mier giæte,
Aungvum so eg Meidslum mæte,
Mitt Verklag og Mykun þijna,
Mier laat vera Unun mijna,
Auk mier Skilning Orda þiña,
Eru þau Lampe Foota miña,
Gief mier jafnañ Gott ad læra,
Goodlyndum vid alla vera,
Varfærum i Veløeingneñe,
Vongoodum þo Rauner siñe,
Liwfe JEsu med Lijfe og Ondu,
Legg eg mig i þijnar Hendur,

Þar vil eg fwo ad Lycktum lenda,
Fadur fiertu utan Enda.



# Ungmenna Bænarkorn a Kvolld.

Nu vil eg enn i Nafne þijnu,
Naaduge Gud sem lietter Pijnu,
Mier ad minne Hvijlu halla,
Og Heidra þig fyrer Giæsku alla,
Þaada af þier a þessum Deige,
Þvi er skyllt eg gleime eige,
Enn þad maa eg Aumur jaata,
Angre vafenn Sijta og Graata,
Movdgad hef eg Margfalldlega,
Millde þijna Guddoomlega,
Utsliett mijnar Synder svartar,
Sundurkramied lækna Hiarta,
Afþveiged i ædsta Floode,
Endurlausnarans JEsu Bloode;
So eg kvittur sofe i Fride,
Saal og Lijf af Eingla Lide,

Unn

Umkryngd, Satans Illsku Hrecke,
Ogn og Slægder finne ecke,
Blessa Hws og Hvijlu mijna,
Hiaastod laat mig merkia þijna;
Þa mun Asookn illra Anda,
Ei hid minsta kunna ad granda,
Laat mig þeinkia a þessu Kvollde,
Þad eg life i veiku Hollde,
Brothætt Gler og Boolan þunna,
Brotna senn og hiadna kunna,
Þu O! Gud skallt þar umm Raada,
Þijnar knij eg a Dyr Naadar,
Af mijns Hiarta Insta Grunne,
Andvarpa og bid med Munne,
Þegar eg skal seinast sofna,
Saal vidskilur, Fiored dofnar,
Hiartans Fader i Hendur þijnar,
Hverfa laat þa Ondu mijna,
Holld i Jordu hægt laat Blunda,
Helgra so þar bijde Funda,
Og Uppriseñ ad eg vijke,
Inn med þier i Himnarijke,
Þar mun eg þusund Packer færa;

Pier sie Lofgiord, Prijs og Æra, Amen.

* * * * * *
* * *



## Hvør sa sem siñ Lifnad vill Saaluhiaalplega framleida, hañ verdur þessar epterfilgiande Greiner vel ad ackta og Hugfesta.

AD hañ þecke og medkeñe siñ Vanmaatt, hvad aumur og einkis Megande hañ sie, hafande eckert af siaalfum sier, helldur af Gude alleina alla Hlute, og hvørneñ hönum sieu aller Hluter Lauus, so hañ verdur þa af Hende ad laata, a hvøriu þvi Augnablike sem Gud þa aptur heimta vill, jafnvel siaalft Lijfed, Og hlijtur so Nakeñ og ber hier vid ad skilia sem hañ þijngad kom. Og þo øll Verølld-

eñ villde med hønum standa allt i Daudañ, þa være hønum þad eing eñ Nytsemd, þvi þad er allt For: geingelegt, og kañ fra Daudanum ecke ad frelsa. Vertu þar fyrer ecke Athugalaus, helldur Ottast Gud, og þeink Idduglega, um þiñ Vanmætt. Gior þeim Þurftugu gott, þad frekast þu kant, so hefur þu Fiesiood a Himnum, og gior þad uppa Guds vegna, þvi þu ert skylldugur allt gott ad giora. Eñ hvør sem gietur nockud gott, og giorer þad ecke, hønum er þad Synd, eñ sa sem þad giorer, hañ giorer þad ecke af sijnu, helldur af þvi sem Gud hefur lient hønum, og af þvi sem Guds er, svo giorer hañ þad af Gude, eñ aller Meñ eru einskis verder.

2.

AD hañ ecke elske Heimeñ, nie þad sem i Heimenum er, sem er Hollds Fysn, Augna-Lyst og Drambsamt Lijferne, helldur hafe Gud fyr er Augum, og stunde epter þeim Hlutum sem Guds eru, sem er Guds Vilia ad framkvæma i allshaattudum Dygdum og fordast þessa Heims Børn, med þeirra Gyrndum, so hañ giøre sig ecke Hluttakande añarlegra Synda. Þitt Hiarta æ ad stunda epter Guds Rijke, og epter þeim Hlutum sem þar uppe eru, eñ ackta allt þad Jardneska fyrer eckert, jafnvel og þijna Leyfelega Skiemtan og Dægra Stytting med Otta og Packlæte brwka, uppa þad þu fall er ecke i Heimuglega Synd, og hafer Lyst til þess Forgeingelega, eñ

gleimer

gleimer eins og Eva Løgmꝛꝛ
DRottens, hvar iñe þu ætt þ
alleinasad hafa þijna Lysteseml
Dag og Nott, so þu gaunger
riettum Veige.

3.

ÞU hlijtur og þessum Premiu
Hlutum Fastlega ad hallda, sem
er Trwñe, Voneñe, og Kiærleikan-
um, allt hvad þu giorer, þa gior
þad af Trwñe, þad er, æn Mañ-
virdingar i Einfalldleika, med stød-
ugu Trauste epter Guds Vilia,
med Packargiørd, svo sem þu giørd
er þad Gude, og epter Skylldu,
þa muntu Blessan hliota, þin
Kiærleike sie og svo af Trwñe, og
Root Hiartans, og svo ad þu haf-
er øngva Velþocknan a sialfum
þier, helldur æ þvi ad þocknast
Gude, med Otta, æn Siergiæd-
ings,

ings, og øllum Mønum, epter Sanleikanum, Myskunseminne og Riettvijsene, aan Manvirdinga, þviad þa er Kiærleikuren Fullkomen. Kiærleikuren leitar þess sem Guds og Naaungans er. Þijna Von laattu vera aan Efaseme, en þo epter Guds Villia i øllum Efnum, alleina til þess Guddoomlega, Himneska og Eylijfa, en ecke til þess Forgeingelega.

Laat ecke þijna Von og Traust til Mottens fra þier taka, þvi Madur skal og midt i Daudanum a han vona, þvi han er Almaattugur.

4.

LJtelæted laat ecke vijkia wr þijnu Hiarta, nie fra þijnum Augum, þvi þad vardveiter þitt Framferde i Einfallddleika, styrker þad

med Poleñmæde og nærer þad med Sañleika. Befala DRottne alla þijna Vegu, hañ mun best fyrer öllu siaa, þvi hañ veit vel, hvad þier gott er, edur ei. Eda meinar þu hañ vite ecke hvad um̃ þig lijdur? Siaa þu DRotteñ sier og veit alla Hlute, og þar er eckert huled fyrer hañs Augum. Eñ hañ aalijtur þañ Audmiwka, og þañ sem Sundurknosadañ Anda hefur, og þañ sem hrædest hañs Ord, Esa. 66. Gyrnst þar fyrer ecke upphafeñ verda, þegar Meñ hroosa þier, helld ur Fyrervird þig af Hiarta, þvi þu ert Onytur Pioon, og aan Guds Kraptar og Styrkleika, Naadar og Anda, megnar þu eckert. Laat þier ecke þykia ad þu siert betre eñ þiñ Naaunge, þvi þu ert Einkisverd Mañeskia. Gief Gude Dyrdena i

öllum

ollum Efnum, þa muntu Upphef-
kiſt, ef þu þig af Hiarta Lijtelæckar.

5.

Þu ſkallt og ſem añañ Speigel þetta þrent fyrer Augum hafa. 1. Ad þu af þijnum Muñe, eingeñ Faafeingeleg, Heimſkufull, Ohreinferdug edur Onytſamleg Ord med Rædu framkoma læter, helldur Ord Lijfſins, þad er þau ſem til Lijffins leida, eñ ecke til Daudans, hvar fyrer þu kyñer Fordæm dur ad verda, ſvo bevara nu þijna Tungu, þvi hun kañ þig bæde Deyda og Lijfga epter ſiñe Vijſu. 2. Ad þitt Hiarta ſie hreint og þijn Samvitſka frij fyrer þvi Vonda, Vara þig fyrer ollum Ohreinum og vondum Paunkum, og ſkignſt med þijnum Augum epter Liooſenu, þa muntu hafa gooda Samvitſku, og ſa er Sæll, hvørs Hiarta ecke Fordæmer hañ, þvi hañ hefur þañ rietta Fognud. 3. Hier næſt bevara þu þijna Vegu og Framferde ſo ad þu vandrer ecke i Myrkrunum, Lygeñe og Rannglætenu, þvi þu ert Guds Madur,

6. J

6.

I ollum Efnum proofa sialfañ þig, og lær ad þeckia þad sem þig eñ nu vantar a allskonar Dygder og siaa til þu forsoomer ecke þad sama, þvi þu kant alldrei giora ofmiked Gott, Jaa, þo þu hefder allt giort, sem þier bære, þa kuñer þu þad þo ecke giort hafa, svo sem af sialfum þier, aan Guds Fulltijngis, þvi þu ert Vanmaattug Mañeskia, Eñ þu skallt ecke hindra Guds Anda Verkan i þier, med wtvortis Umsvifsum, so þu rater ecke i Fordiorfun, Eñ ef þu villt Riettelega proofa sialfañ þig, þa lif i sijfelldre Idran, Audmykt og Einfalldsleika, med Otta og Hrædslu iñ til þess þu kgñast vid, ad þu siert ecke Verdugur þess Naatturlega Lijfsins, auk helldur alls þess Gooda sem þar til heyrer. Eñ þo myklu sijdur þess Eylijfa Lijfsins. Pad er sa meste Spekingur, sem riettelega proofar sialfañ sig.

7.

AD sijdustu skalltu bidia aan aflaats i þinu

ínu Hiarta í Otta DRottens, i öllu þvi þu adhesst, svo sem fyrer Guds Augsite, það er wt af Trwñe a þijnum Vegum vid Nauungañ, med Hiartañlegre Epterlangan þess ens gooda, Gude til Dyrdar, med Utdeiling þiñar Gæfu i Kiærleika i þijnu Herberge, edur hvar þu ert alleina, med Hiartans Alvoru, epter þvi sem Gud giefur Raad til, med Fostum, Vesinan, Harme og Grate, med Sundurknosan þijns Hiarta, fallande a Knie, eda þijna Asioonu, standande edur Gangande, Dag og Nott i stodugre Von, aun Efa eme, epter Guds Vilia, fyrer öllum Trwudum, svo sem þijnum Medbrædrum. J stuttu Maale ad seigia, Kostgiæf i öllum Hlutum Gude ad þocknast, eñ ecke Moñunum. Hvør DRotteñ Heidrar þañ mun hañ heidra aptur a moot. Eñ hvør hañ forachtar, þañ mun hañ og forachta aptur.

Eñ þu temur þier Kostgiæfelega þessa Siðe Hlute, þa mun Gud elska þig. Hvad

vardar

vardar þig um̃ Meñena? Les ydugleg[a]
Guds Ord, og bid hañ um̃ riettañ Skiln-
ing. Samlaga þig Gudhræddu Foolke,
svo þu meiger Dag og Noott um̃ Guds
Ord Ræda, þeinkia og Skrifa. Sæll
er sa sem þeñan Lærdom ecke
foracktar, Blessader sieu
aller audmiuker og
froomer, Amen.

## Epterfilgiande Bladsydu til uppfyllingar, setiast þesse Heil-ræde Doct. Mart. Luth. Ur Pystu Maale wtlogd af Sr. Olafe Gudmundssyne.

MEst viter, eñ miog faatt seige[r]
Margt heyrande um̃ þad þeig[e]
Hiaalpa þeim i Haaska eyger.
Hefnd og Urskurd leinge deiger,
Vielum sijst i Vinskap smeiger
Vid þier hollum ei þig reiger.

[L]ufur meira Mañe hneiger.
Mina lijter ei nie sveiger.
Afla vel eñ Faung ei feyer.
Falslaust giallder og wtveiger.
Metnast ei þo myked eiger.
Misser aungvañ leinge þreyer.
Añars Gotz Ogiarna leiger.
Goodsws siert þeim Luckañ beiger.
Omaklegañ alldrei streyger.
Orlog Kijf og Roog ei heyger.
Varast Kapp þo viña meiger.
Vijk fra þeim til Synda teyger.
Rood og Agyrnd fra þier fleiger:
Fridgiarn Riett-irwadur deyer.

Ender Bæklingsins.



